# VESTUR CANADA.

Heimsins mesta kornyrkju-land.
Heimsins mesta kvikfjárræktar-land.
Heimsins mesta náma-land.

**Heimkynni fyrir miljónir manna.**

Gefins bújarðir, sem innflytjendur geta valið sér sjálfir.

**Álit Íslendinga á Canada eftir margra ára reynslu.**

Gefið út að tilhlutun Canada-stjórnar. Til útbýtingar.
Á ekki að seljast.

1900.

# INNGANGUR.

Bæklingur þessi er gefinn út í því skyni að vekja athygli fólks á Íslandi á því tækifæri til að nema góð lönd í Canada, sem enn stendur til boða.

það er ekkert leyndarmál, að allmargir menn á Íslandi eiga örðugt uppdráttar og kvíða framtíðinni, fyrir sig og sína, og mundu kljúfa þrítugan hamarinn til að komast til Canada, ef þeim væri landkostir þar kunnir og þeir hefðu ljósa hugmynd um tækifærin til að hafa sig þar áfram.

Fyrir því er nægileg reynsla fengin, að Canada er land, sem Íslendingum hefir gefist vel og þeir una vel hag sínum í. þeir fáu, sem þaðan hafa flutt eftir að hafa verið þar um tíma, hafa flestir leitað þangað aftur. þetta virðist Íslendingum heima ekki vera nægilega ljóst.

Að vísu hafa umboðsmenn héðan frá Canada verið sendir til Íslands að öðruhvoru. En bæði er það, að þeir ná tali að eins af fáum, þó þeir dvelji þar um tíma, og svo hitt, að þeir eru aðallega sendir þangað til þess að leiðbeina þeim, sem af eigin hvöt ákveða sig til að flytja til Canada; umboðsmenn þessir eru líka þannig settir, þann tíma sem þeir dvelja á Íslandi, að þeir að sjálfsögðu umgangast mest þá menn, sem ó-

líklegastir eru til vesturfarar. Og ofan á þetta bætist svo, að allmargir, þar á meðal blaðstjórarnir flestir, leitast við á margan hátt að gera þessa umboðsmenn, eða réttara sagt sögusögn þeirra um Canada, tortryggilega í augum manna á Íslandi. Meðal annars hafa þau ósannindi verið breidd þar út, að umboðsmenn Canadastjórnar fengju ákveðna borgun fyrir hvern mann, sem vestur flytti. Líka ganga margar sögur um það, hve tíðarfar í Canada sé ilt og landkostir þar litlir. Þannig var því óviti haldið fram í búnaðarritinu íslenzka, 1897, og það af gáfuðum og upplýstum manni, sem betur vissi, að landbúnaður í Canada væri mikið arðminni en á Íslandi,

Margt hefir nú komið í ljós um hagi Íslendinga í Canada, sem nægja ætti hverjum skynbærum manni til þess að hrinda þessum ósannindum. Eitt af því er peningasendingarnar heim, sem æ fara vaxandi. Annað það, hvernig menn, sem verið hafa í Canada, una hag sínum á Íslandi, og hve marga af þeim fýsir að byrja landbúnað þar. Þannig mætti telja margt, það á meðal álit þeirra Íslendinga, sem ferðast hafa vestur og kunnugt gert álit sitt um líðan manna vestra.

Þannig má segja, að það, sem nú þegar hefir komið í ljós, ætti að nægja til þess að sannfæra hvern skynbæran mann um þetta mál. En til þess að vekja að nýju athygli manna á þessu er, sem sagt, bæklingur þessi gefinn út. Aðal efni hans, sem lesendurnir eru sérstaklega beðnir að taka til íhugunar, er álitsbréfin frá íslenzku bændunum í Vestur-Canada. Það eru engar *agenta-ýkjur*, né gulli-roðið auglýsingafimbulfamb, heldur öldungis blátt áfram sannfæringarmál þeirra, sem bréfin hafa skrifað, eins og þau bera með sér. Ótal fleiri slík bréf hefði mátt fá, en það á-

leizt óþarft. Dálítið tillit hefir verið tekið til þess, að þau væri frá mönnum víðsvegar úr bygðum Íslendinga og frá valinkunnum mönnum, er góða þekkingu hafa á því, sem um er að ræða. En þessi bréf hafa öldungis ekki verið fengin frá efnamönnum einum saman. Sum þeirra hafa skrifað efnalitlir menn, eftir því sem hér er talið. Það eru, og verða ætíð, efnalitlir menn innan um, hvar sem er. Og það er ekki minst um vert að vita hvernig þeir hafast við. Ríkir menn geta allstaðar komist af.

Þessi bréf eru öll frá mönnum, sem heima eiga í Canada, og sem allir eru bændur, að undanteknum þremur, sem heima eiga í Selkirk, Manitoba. Og þó þau séu ekki mörg, þá ættu þau að vera ærin sönnun fyrir því, hvernig bændur una hag sínum í Canada. Og þeir, ef nokkrir eru, sem vefengja þessa menn, mundu ekki horfa í það fremur þó þeir væru mörgum sinnum fleiri.

Það kemur fram í bréfum þessum, að höfundar þeirra álíta fýsilegra að flytja til Canada nú, en það var fyr á árum þegar Íslendingar fluttu þangað mest. Það ber margt til þess að svo er, en fyrir Íslendinga út af fyrir sig það, hve margir landar þeirra eru hér komnir áður. Þeir af þeim, sem hingað koma, geta flutt sig nú í al-íslenzkar bygðir, ef þeir vilja, og komist að atvinnu ýmist hjá Íslendingum sjálfum eða með þeim, og geta þannig komist hjá þeim óþægindum að ganga í þjónustu hjá mönnum, sem þeir ekki skilja, en sem Íslendingar urðu að gera sér að góðu á fyrri árum, og var það jafnan óyndislegasta tímabilið fyrir innflytjendur.

Svo er hitt annað, að Vestur-Canada hefir aldrei verið í eins miklu áliti og nú. Atvinna aldrei eins mikil, verzlun aldrei eins lífleg og yfir höfuð hagur al-

mennings aldrei staðið eins vel. Járnbrautir eru bygðar meiri með hverju ári og þekking manna á landinu fer óðum vaxandi. Menn hafa því betri aðgang nú en nokkru sinni áður að góðu landi á hentugum stöðum, að því er járnbrautir og viðskifti snertir.

þetta verður bezt sannað með því að benda á, hve óðum fer vaxandi innflutningurinn til Canada, og skal hér gefið sýnishorn af því:—

Árið 1897 fluttu til Vestur-Canada rúmar tíu þúsundir manna, en árið 1898, rúmar þrjátíu þúsundir; og þegar þetta er skrifað, um lok júlímánaðar 1899, þá eru fluttar inn þrjátíu þúsundir frá byrjun ársins.

Fjöldi þessara innflytjenda hafa komið úr nágranna-ríkjum Bandaríkjanna, en þó flestir frá Norðurálfunni.

Í Manitoba-fylki einu saman var korn-uppskeran árið 1898, 47,345,664 bushel*). Ostur og smjör var selt út úr fylkinu fyrir $409,455.72 á því ári. Ekki er létt að segja með vissu, hve margt nautgripa var selt burt úr Manitoba og Norðvesturlandinu, en Can. Pac.-járnbrautarfélagið einsamalt flutti þaðan á árinu yfir 50 þúsundir. það sama félag seldi land á árinu fyrir $1,123,696.50; og Hudsons-flóa félagið, fyrir 185 þúsundir dollara.

þessi skýrslu-útdráttur sýnir bæði það, að afurðirnir eru stórkostlegir í þessu landi, og svo hitt, að álitið á landinu fer vaxandi, og eftirsóknin eftir því að sama skapi. Verð á landinu hlýtur að fara sívaxandi og er því sjáanlegt, hve mikils virði er að ná í frí heimilisréttarlönd meðan þau er að fá á góðum stöðum.

*) Í busheli af hveiti eru 60 pund.

Canada liggur norðan við Bandaríkin. Meginpartur þess mikla lands er kallaður Vestur-Canada. Fyrir nokkrum árum var bygð, af hvítum mönnum, að eins spilda meðfram St. Lawrence-fljótinu og nokkur partur af Ontario-fylki og hin smærri fylki austur við Atlants-haf. Vestur-Canada var þá lítt þekt land. Fáum datt þá í hug, að einmitt sá parturinn, sem þá var ókunnur, yrði til þess að vekja þá eftirtekt á Canada, sem raun hefir á orðið. Enginn, sem til þekkir, efast nú um, að aðal-framtíð Canada og meginmagn liggi í hinu mikla vesturlandi. Það er nú komið í ljós, að Vestur-Canada er eitt af auðugustu löndum heimsins, bæði hvað snertir akuryrkju og málma. Enginn kunnugur maður efast nú um, að með framtíðinni verði Vestur-Canada heimkynni fyrir miljónir manna.

Winnipeg er stærstur bær í Vestur-Canada. Nú eru þar um 50 þúsundir íbúa. Hann fer óðum vaxandi nú á síðari árum. Þar er áætlað að vera muni um 4,000 Íslendingar. Seint græðist verkamönnum þar fé, og betur farnast flestum, sem við landbúnaði gefa sig. Þó eru nú allmargir Íslendingar í Winnipeg í góðum efnum, en þaðan af fleiri sem lifa góðu lífi þó fátækir séu. Fjöldamargir þeirra eiga húsin, sem sem þeir búa í, og eru þau nú, eftir því sem bærinn vex, að hækka óðum í verði. Flest íslenzk heimili í Winnipeg bera vott um allgóða líðan, og sum um mikla vellíðan; en alstaðar lýsir sér vaxandi þrifnaður og smekkvísi fólksins fyrir snotrum og hentugum húsakynnum og innanhússmunum.

---

Margir Íslendingar eiga heima í Bandaríkjunum og eiga þeir þar blómlegar nýlendur. Þar er nú farið að minka um frí-lönd, og gott land því komið í afar-

hátt verð. Íslenzku bændurnir þar syðra vita hvers virði er að eignast góða bújörð í þessu landi. Þeir hafa líka margra ára reynslu við landbúnað hér í álfu, og góða þekkingu á landi. Það er þess vegna fróðlegt fyrir Íslendinga heima að heyra það, að einmitt þessir reyndu, íslenzku bændur úr Bandaríkjunum eru nú óðum að flytja norður til Canada. Þeir gera það ekki fyrir neinar *agenta-giuningar*, þeir kaupa ekki „köttinn í seknum", þeir láta ekki slá upp í augun á sér, þeir koma sjálfir norður til Canada og skoða landið sjálfir. Þeir sjá þá um leið, hvernig Canada-bændunum vegnar. Og árangurinn af skoðunarferðum þeirra hefir orðið sá, að stöðugur innflutnings-straumur af þeim norður er nú byrjaður.

Ekki hafa þeir allir flutt norður vegna þess, að þeim ekki líki landið þar syðra, þó þeir séu nokkrir, en þeir gera það af ýmsum ástæðum. Sumir þeirra hafa alls ekki neitt land þar syðra og geta ekki fengið þar neitt land, sem þeim líkar. Aftur gera sumir það í gróðaskyni, án þess þeir séu landlausir. Þeir selja bújörð sína fyrir hátt verð suður frá, en fá svo aðra frítt, fult svo góða, norður í Canada. Margir bændur syðra horfa líka í það, ef þeir eiga uppkomin börn, að komast þangað, sem hægt er að fá mörg góð lönd, hvert við annars hlið, svo að öll fjölskyldan geti þannig fengið sér framtíðarheimili svo að segja á sama blettinum.

Á þessu ári hafa komið hingað norður sendinefndir frá Íslendingum í Norður-Dakota til þess að velja land, og eru skýrslur frá þeim sumum prentaðar annarsstaðar í þessum bæklingi.

---

Á þessu sumri hafa nú þegar komið frá Íslandi hátt á annað hundrað manns. Hátt á annað þúsund

hefði eins vel mátt koma til Canada þetta ár, upp á það, að nægileg atvinna hefði verið til reiðu fyrir þá alla, sem vinnufærir hefðu verið, jafnt konur sem karla. Fjölda margir íslenzkir bændur höfðu beðið íslenzka innflutninga-umboðsmanninn í Winnipeg að útvega sér vinnumenn úr þeim hópi, og buðu þeir ekki minna en $25.00 (nálega kr. 100) um mánuðinn, auk fæðis, með loforði um hækkun þegar uppskera og þresking byrjaði. En þessu sættu nálega engir, því þeim bauðst undir eins í Winnipeg hærra kaup. Ekki er minni eftirsókn eftir vinnukonum. Sumar þeirra, sem frá Íslandi komu í sumar, fengu strax vinnu þegar til Winnipeg kom fyrir $16.00 (um kr. 60) um mánuðinn, auk fæðis og húsnæðis, og hugsa þær nú gott til með að safna peningum til þess að kosta frá Íslandi á næsta ári bágstatt skyldfólk sitt.

---

# VOTTORDS-BRÉF.

---

ARGYLE-BYGÐ, MANITOBA, 15. júlí 1899.

Þeir, sem þekkja efnahag og kringumstæður Íslendinga hér vestra og heima á Íslandi, hljóta að viðurkenna, að íslenzku bændurnir hér eru betur staddir, í efnalegu tilliti, en bændurnir á Íslandi. Þetta er eðlilegt þegar gáð er að kostum og ókostum beggja landanna. Og hver, sem gerir það hlutdrægnislaust, mun fljótt sannfærast um, að Ísland þolir ekki samanburð við Canada.

Hér í Manitoba er mikið af landi vel löguðu til akuryrkju. Hinar fögru, öldumynduðu grundir, sem nú er víða búið og árlega er verið að breyta í frjósama kornakra, gefa af sér miljónir bushela af hveiti og öðrum korntegundum árlega. Engjalönd eru hér líka góð og heyskapurinn fljóttekinn. Er heyvinna hér einkar skemtileg. Stunda flestir bændur hér líka kvikfjárrækt. Hún er arðsöm og nauðsynleg jafnframt hveitiræktinni.

Til þess að gefa hugmynd um, hvað lönd eru hér auðunnin, vil ég geta þess, að einn bóndi hér, herra Skafti Arason, plægði 200 ekrur af óyrktu landi, sem hann var nýbúinn að kaupa, sumarið 1898. Unnu að því tveir menn með 4 hesta á þriðja mánuð. Nú í

sumar sáði hann hveiti í þetta land, og er útlit fyrir, að hann fái 30 bushel af ekrunni (6,000 bush.). Sést af þessu, hvað góð lönd borga fljótt erfiði og fyrirhöfn bændanna. Það sanna líka hinar blómlegu bygðir og borgir, sem hér rísa upp á fáum árum. Það eru nú að eins 18 ár síðan fyrstu Íslendingar settust að í þessari bygð; þá mjög efnalitlir, sumir svo, að þeir þurftu fyrstu sumurin að vinna hjá öðrum. Hugsuðu þá fæstir um að eignast meira en eitt land (160 ekrur). Nú hafa flestir bændur hér 320 til 1,100 ekrur af landi, og þetta frá 100—500 ekrur yrktar. Eru nú flestir búnir að plægja alt, sem þeir geta, af löndum sínum.

Aðal ókostir í Manitoba eru hagl og næturfrost, sem oft gera mikið tjón á uppskerunni. Þó hefir ekki kveðið mikið að því í þessari bygð. Eg hef stundað hér akuryrkju í 15 ár, og að eins eitt ár hefir hveiti mitt verið til skaða snert af frosti. Hagl hefir ekki enn gert mér skaða. Til jafnaðar, þessi 15 ár, hef eg fengið 21 bushel af ekrunni. Og meðal-verð á hveiti-bushelinu hefir verið 60 cents.

Þar sem eg þekki til líður löndum yfirleitt vel, og margir eru í mjög góðum kringumstæðum. Eg þekki enga sveit á Íslandi, sem þolir samanburð við sumar íslenzku bygðirnar hér.

Margir kunna að segja, að ekki sé auðgert að fá eins góð lönd og eru í Argyle-bygð, til þess að mynda aðra jafn góða nýlendu. Um það vil eg ekki segja. Eg þekki ekki nógu vel hið óbygða land í Manitoba og Norðvesturlandinu til þess. En víst er það, að nóg er til af góðum kvikfjárræktar-löndum, enda er hún stunduð af mörgum og reynist arðsöm. Geta menn haft hesta, nautgripi, sauðfénað, svín og alifugla. Þarf ekki að kvíða hér horfelli, því oftast má hafa nóg

hey. Líka er hægt að rækta ýmsar grastegundir og annað fóður. Flestir Íslendingar hafa byrjað búskap með kvikfjárrækt.

Eg vona, að allir skilji, að innflytjendur hafa hér við ýmsa erfiðleika að stríða fyrstu árin eftir að þeir koma hingað. Þeir kunna hvorki vinnu né mál landsins. Þurfa að vinna hjá öðrum um lengri eða skemri tíma og, til að geta fengið góð heimilisréttarlönd, verða þeir oftast að flytja í lítt bygð héruð og gera sér að góðu nýbyggjalífið. Þetta hafa flestir reynt, sem sezt hafa að á landi og byrjað búskap, og ekki sízt fyrstu nýbyggjarnir. En þeir hafa sigrað erfiðleikana með guðs hjálp, og nýlendurnar eru orðnar að blómlegum bygðum, vel settum, hvað markað og samgöngur snertir. Og þar sem bóndinn var 3—4 daga með 40 bushel af hveiti til markaðar, vegna vegalengdar, er hann nú ekki lengra frá en svo, að hann getur nú flutt hundruð bushela til markaðar á einum degi.

Þegar eg fór frá Íslandi var eg 24 ára gamall, og er nú bráðum búinn að vera hér 23 ár, svo eg þekki bæði löndin nokkuð. Og þó mér liði vel heima á gamla landinu og lifði þar marga ánægjustund, hefir mér aldrei komið til hugar að flytja heim til Íslands, til að setjast þar að, en oft hef eg óskað, að eg hefði fyr flutt hingað vestur.

ÁRNI SVEINSSON,
frá Kirkjubóli í Fáskrúðsfirði.

---

NÝJA ÍSLANDI, HNAUSA P. O., í jan. 1899.

Herra W. H. Paulson, Winnipeg.

Þú hefir beðið mig, herra innflutninga-umboðsmaður, að gefa þér álit mitt um, hvort betra sé að lifa hér eða heima á gamla landinu okkar. Eg vil því í

fáum orðum minnast á ýmislegt viðvíkjandi lífinu hér vestra. En svo geta aðrir dæmt um, hvort það er líkt eða betra en heima. En af því eg er bezt kunnugur hér í Nýja Íslandi, verður það, sem eg segi, mest því viðvíkjandi.

Líðan manna hér, yfir höfuð, má heita góð. Hér um bil allir hafa nóg fyrir sig og sína. Húsakynni eru hjá öllum sæmileg og hjá sumum ágæt.

Tíðarfar er hér reglubundið ; — vetur þegar menn vonast eftir vetri, og sumar þegar menn vonast eftir sumri. Hér í Nýja Íslandi fer oftast að vora í apríl, og stundum fyr. Snjór oftast farinn um apríl-lok. Ís af vatninu fer vanalega kringum miðjan maí. Hér er enginn hafís í nánd til að færa frost og hríðar þegar fram á sumar er komið, eða til að eyðileggja jarðarávexti eða nýting þeirra. Haglél hafa aldrei komið í þessari nýlendu, svo eg viti, sem hafa eyðilagt uppskeru manna.

Hér eru engin ,,útsvör" til fátækra, því hér eru engir á ,,sveit". En þó engin gjöld, sem beinlínis eru ætluð fátækum, séu greidd í sveitarsjóð, þá liðsinnir samt sveitar-ráðið fátækum, ef eða þegar nauðsyn krefur. Þau 11 ár, sem eg hef verið hér, hefir ekki verið greitt af sveitarsjóði nema lítið eitt til styrktar fátækum. Flestir af þeim hafa verið nýkomnir að heiman.

Ef einhver er illa staddur vegna veikinda, slysa, eða á annan hátt, þá er vanalega skotið saman eða haldin samkoma honum til styrktar.

Engin lögboðin gjöld eru hér til prests eða kirkju, en hver sem vill getur styrkt þá kirkju, sem honum sýnist, eftir vilja sínum eða mætti.

Hér eru engir skattar, nema til sveitarsjóðs og skóla. Síðan eg kom hingað (11 ár) hefir meðaltal af

sveitarskatti áónda, sem hefir heilt land til ábúðar (160 ekrur), verið liðugir $6.00, og svo er þar að auki lítill skattur sem bændur í hverju skólahéraði leggja á sig sjálfir, til styrktar sínum eigin skóla. Meiripartur af sveitarskatti gengur til styrktar skólunum og til vegagerðar og viðhalds. Hér er skatturinn lagður á eftir virðingar-verði bújarðanna, en ekkert á lausafé, sem sami maður á, nema verzlun sé eða þvílíkt.

Alþýðuskólar eru 9 hér í bygðinni og fær hver skóli styrk bæði frá fylkis- og sveitar-stjórninni, en kenslan er frí fyrir nemendur.

Hér í nýlendunni er mest stundað: griparækt, fiskiveiðar og hveitirækt lítið eitt. Mikið af góðum gripalöndum er enn ótekið hér, einkum vestan til í nýlendunni. Og svo er mikið til hér af skóglöndum. Nægur er eldiviðurinn, húsaviður og talsvert af sögunarvið. Ekki þurfa bændur hér að brenna áburðinum.

Kaup fyrir algenga vinnu hér í fylkinu er vanalega yfir sumartímann $20—$30 um mánuðinn (auk fæðis og húsnæðis). Fyrir daglaunavinnu er stundum borgað 20 cts um klukkutímann. Að vetrinum er vanalega minna kaup borgað, en flestir, sem vilja vinna, geta oftast fengið eitthvað að gera yfir veturinn fyrir kaup þetta frá $5—$20 um mánuðinn auk fæðis. Nú eru enda borgaðir $24 fyrir sögunarviðar-úttekt í Mikley. Þegar unnið er fyrir mánaðarkaupi fæðir vinnuveitandi vanalega verkamennina.

Verzlanir hér í nýlendunni eru 7, og má fá hjá þeim hvað sem maður þarfnast. Óvíða er lengra en 2 mílur danskar til verzlunar.

Verðlag á ýmsu er sem fylgir:

| | |
|---|---|
| Kaffi, 8—10 pd. fyrir | $1.00 |
| Hvítasykur, 15 pd. fyrir | 1.00 |
| Hvítasykur raspað, 18 pd. fyrir | 1.00 |

| | |
|---|---|
| Te, 2—4 pd. fyrir .................. | $1,00 |
| Hveitimjöl (Patent), 100 pd. fyrir ...... | 2.15 |
| Hveitimjöl (Strong Baker), 100 pd. fyrir.. | 2.00 |
| Hveitimjöl (XXXX), 100 pd. fyrir ..... .. | 1.30 |
| Hveitimjöl (Superfine), 100 pd. fyrir .... | 1.10 |

Hið síðast talda hveiti er, að mér virðist, líkt að gæðum eins og hveiti það, sem fluttist heim (Overhead-hveiti), en hér nota það nú orðið fáir eða engir; það þykir svo slæmt. Kjöt selst inn í verzlanir fyrir 4—6 cts pundið, gripahúðir 6 cts pundið og smjör fyrir 15 cts pundið.

Enskir gripakaupmenn hafa keypt hér fyrirfarandi mikið af geldneytum og gefið allvel fyrir.

Hvað því viðvíkur, hvernig sé fyrir fólk að flytja inn í þetta land, þá er mikið tækifæri enn að fá góð heimilisréttarlönd í þessu fylki, og eins í Norðvesturlandinu, hvort sem menn vilja heldur akuryrkju eða kvikfjárlönd.

Að fátækir menn lifi betra lífi hér en þeir mundu hafa gert heima, get eg ekki efað. Eg þykist vita það á sjálfum mér og mörgum öðrum fátæklingum, sem komu um sama leyti vestur (úr Húnavatnssýslu), því að þeir af þeim, sem eg þekki til, eru allir við góða líðan, og höfðu fljótt, eftir að hingað kom, nóg fyrir sig og sína, eftir því sem fátækir gera kröfur til. Sumir, sem komu að heiman um það leyti, endá orðnir efnabændur.

Hvað efnamönnum viðvíkur, þá er síður þörf að tala um þá. Bæði þurfa þeir síður að breyta til, og föðurlandið má síður missa þá, sem geta stutt það á vegi framfaranna, en auðvitað er eins tækifæri fyrir þá hér, ef þeir koma með þeim ásetningi að vinna, en treysta ekki of mjög á efnin.

Ekki veit eg um nokkurn mann hér í nýlendunni, sem langar til að flytja heim.

Það hefir borið við, að óyndi hefir verið í stöku manni fyrst eftir að hann hefir komið vestur, einkum hafi þeir verið efnamenn heima, og óskað, að þeir hefðu aldrei hingað farið o. s. frv., en svo hafa þeir smámsaman vanist við lífið hér.

Með virðingu,

SIGURÐUR JÓNSSON,
frá Kamphóli, Húnavatnssýslu.

---

TINDASTÓLL, ALTA, 25. marz 1899.

W. H. Paulson, Esq.

KÆRI VINUR.—Fylgjandi línur eiga að eins við Alberta-nýlenduna, okkar Íslendinganna hérna. Dómarinn, sem fékk það svar, *að hann vissi það sjálfur ofboð vel*, þegar hann spurði vitnið, sem var konan hans, hve gömul hún væri, varði sig með því, að það væri ekki til þess ætlast, að mann í *sínum sporum* grunaði neitt um það.

Viðlíka vík eg af mér að hafa yfir álit mitt um gögn og gæði annara íslenzkra nýlenda, né Canada í heild sinni.

Eg geri heldur engan samanburð á högum manna *hér* og á *Íslandi*. Þaðan fór eg ungur, áður en eftirtekt mín var þroskuð; þangað hef eg ekki komið í 25 ár. Fréttir og mannmæli eru allra heimild. Eitt veit eg þó, ef landkostir væri eini gæfumunur mannanna, væri samanburðurinn á sveitinni *hérna* við sum héruð *heima* æði óánægjulegur. Hérna, hver blettur á jörðinni grashagi eða skógur, *þar*, gróðrar-spellin;

melarnir og moldflögin. Eins er vinnuauki verkfæranna *hérna* í samanburði við handafl mannanna *þar*.

Það var, auðvitað, sönn hagfræði af Haraldi konungsefni að æskja sér fremur húskarla en skipa eður kúa. Mannaeign er arðsamastur gripastóll sem til er, helzt þar sem hann sjálfur þekkir engan eiganda, en hyggur sig frjálsan, neytir allrar orku til að afkasta sem mestu og verður að sjá sér sjálfum farborða eins og *erlendis*. Heima auka engar vinnuvélar eftirtekjuna, og hjú veit sig handbendi húsbóndans.

Hitt skal eg gera ef vill, segja *mína sögu héðan* eins sanna, eins og eg kann. Sjálfum þér ætla eg *kaflann um heimahaginn* og dómsúrskurðinn milli þeirra *beggja*.

Þó get eg ekki gert þetta í algengum orðatiltækjum. *Eg* og *þú* erum, ef til vill, ekki á það sáttir, hvað til þess þurfi að geta sagt með sönnu, að *einhver búi vel* eða að *sveitarhagur sé góður*. Til dæmis: Eg er um það að vera jafnaðarmaður, og eftir *því* hef eg hvergi séð mönnunum líða *vel*. Borið saman við heiminn, eins og hann *er*, get eg þó sagt um eitthvert land, eða hérað, að kjör almennings séu þar *góð*. Samt þykist eg hafa rekið mig á verri glundroða um *þetta*, en jafnvel minn. Einusinni kom vinkona mín því orði á, að eg væri orðinn *sveitarþurfi*... Það ár borgaði eg liðuga $20.00 í sveitarþarfir. Annað skifti lét kunningi minn það uppi, að sér sárnaði mjög, hve ósýnt mér væri um *fallega* búmensku. Litlu seinna kom hann ár sinni svo fyrir borð að borga að eins fjóra tíundu hluti af skuldum *sjálfs sín*.

Hvernig getur maður þá ritað um jafn óákveðinn hlut eins og almenningshagurinn er, án þess að vera misskilinn?

Það er nú hálft tólfta ár, að mig minnir, síðan Ís-

lendingar settust fyrst að hérna í *Huldár-* (Medicine) dalnum í Alberta í *Útnorðurhéruðunum*, 900 míl. norðvestur af Winnipeg-bæ, og 100 austur af Klettafjöllunum, nnmu lönd á víð og dreif á árbökkunum, út á grassléttunni, inn á milli hólanna, undir espirunnunum. 75 mílur var leiðin til kaupstaðar, Calgary-bæjar. Húsakynni voru lítil, bústofninn oftast 2—4 kýr, verkfæri nærri engin; efnin sem sett var saman með voru: 160 ekrur af *gjafafasteign*, og lausaféð mestmegnis *vilji* og *von*. Þeir, sem fyrir voru, virtu þessa innflytjendur eftir efnunum. Að þeirra dómi var bezti landneminn nokkur þúsund pund sterling í vösum brezks óráðsseggs.

Bygðin er þann dag í dag lítið fjölmennari en fyrstu árin. Löndin liggja enn ónumin í íslenzku bygðinni í Alberta—inn í henni og út í frá langt—eins góð og betri en þau sem hafa verið bygð. Nú aka menn í hægðum sínum heiman og heim á dag til næstu járnbrautarstöðva. Nú eru Íslendingar taldir hér allgóðir búhöldar og fullvel mentir. Nú eru húsakynni þeirra rúmgóð. Nú telur maður frá 20 til yfir 50 nautgripi nærri á hverjum bæ; þar sjást nú frá 2 til 10 hross og heyvélar flestar, vagnar og sleðar. Nú eru hér í sveitinni tvær dálitlar verzlanir, osta- og smjörgjörð á tveim stöðum, eitt pósthús og 3 alþýðuskólar, og fólkstalan þó tæp 200. Þessir Íslendingar eiga margar nauðsynjar óuppfyltar enn, það er víst margt áríðandi verkið ógert; eg efast um, að nokkrum þeirra endist aldur til að fá því öllu lokið. En hagur þeirra er samt ekki illur. Það hefir ræzt fram úr vonum þeirra *nokkuð* á hverju ári.

Svona er það *hérna* í Alberta. Ætli að líkt myndi fara í óbygðunum *heima*, t. a. m. fram á Stafnsheiði? Nú er þægilegra fyrir innflytjendur að koma hér en



Dómhúsið í Winnipeg.

var fyrir 11 árum; jafngott land eins auðfengið og þá, aðflutningur hægri, mannblendni meiri, atvinna engu síðri, (hún heldur eykst með vexti og efnum nýbyggjanna). Jafnvel fátækur maður ætti *nú*, ekki síður en við *þá*, að geta komist hér af og gert það, sem við höfum gert, ef hann gerir sig ánægðan með *það*, þolir erfiðleikana líkt eins og við, og getur lifað við vonina viðlíka vel eins og við.

Hvort eg réði vini mínum heima til að flytja hingað, er mér óráðin spurning. ,,Það á hver tunna að standa á sínum botni", minnir mig sé haft eftir *Jörundi* heitnum *Hundadagakonungi*. Líklega hefir einhver Dani sagt það; það er svo *beykislegt*. Eg tek ekki alveg eins djúpt í árinni þegar um vesturflutning er rætt. Þó er það álit mitt, að gætu svitadroparnir, eður áhuginn fólksins, sem vestur flytur, orðið Íslandi að verulegu gagni, þá færi bezt að það eyddi þeim þar. Eg er jafn viss um þetta tvent: *Hér er meira brauð en heima*, og að: *mennirnir lifa ekki af einu saman brauði*. Ef að bólar á heimþrá hjá okkur hérna, stafar hún sjaldnast af því, að við búumst við, að þar heima væri veran betri, heldur öðruhvoru hinu, að okkur finst mannalegt að bregða sér kynnisferð til ættingjanna, eða sú hugmynd hefir sezt að í okkur, að ýmsu megi þar líka áorka hefðum við fé og tíma til. Hvar sem maður annars er, verða *þjóðkostir beztir landkostir*. Sá maður, sem týnt hefir trú á framtíð sína og lands síns, hefir frá engu að hverfa. Sjálfu landinu verður það líka heilsubót ef *einhver* hreyfing kemst á þess dauða blóð.

,,Son míns lands, ef sorg og neyð<br>
Sálu þína fer að beygja<br>
Og þín trúardáð vill deyja,<br>
Inn á *Þórsmörk* legðu leið!"

var kveðið heima. Eg held þessum „landsins syni“ væri *Vesturheimur* enn þá hollari en *Þórsmörk*.

Mér er í barnsminni gamall maður skólageinginn, „þetta eru nú mínar reselússíur“, sagði hann oft þegar hann hafði kveðið upp álit sitt um eitthvert vafamál. En hvað mér féll illa, að eg skildi ekki þetta merkilega orð, og mikinn fjölda af þeim varð eg að læra áður en eg gat séð það af sjálfsdáðum, að karlinn myndi hafa krókbeygt svona orðið: *resolutioner*, sama sem ályktanir.

Þó eins fari fyrir þér, þá eru þetta mínar reselússíur.

Vinsamlegast

STEPHAN G. STEPHANSSON.

---

SELKIRK, Man., í marzm. 1899.

Bærinn Selkirk, þar sem eg á heima, er 24 mílur frá Winnipeg. Þar eru nálægt 4,000 íbúar. Bærinn er ekki þétt bygður nema á köflum. Auðu kaflarnir eru grasi og skógi vaxnir og sömuleiðis alt út frá bænum. Hagar eru ágætir og mjólka kýr hér vel og geldneyti verða hér vel feit. Mikið er hér af ágætu landi óteknu, einkum til griparæktar, þó hér þrífist líka ágætlega allskonar korntegundir og kartöflur, ef skynsamlega er að því unnið og á réttum tíma.

Þegar eg kom hingað, fyrir 15 árum, var að eins ein íslenzk fjölskylda hér, en nú eru hér yfir 100 íslenzkar fjölskyldur, sem flest-allar eiga nú fasteignir, þó allslausar hafi hingað komið.

Flestir þessir fjölskyldufeður lifa hér á daglaunavinnu, en nokkrir stunda verzlun. Þó kaupgjald þyki

hér fremur lágt á öllum ársins tímum, þá verða afnotin eins góð eins og í öðrum bæjum, þar sem kaup er nokkuð hærra.

Á hverju einasta af þessum 15 árum hafa flutt hingað fleiri og færri íslenzkar fjölskyldur, flest-allar allslausar af jarðneskum auði, með þetta 3—6 ungbörn. Landar þeirra, sem hér hafa verið komnir, hafa þá hjálpað þeim til að fá húsnæði, og aðstoðað þá suma í byrjun, einkum í því að fá atvinnu, svo endirinn hefir orðið sá, að þeir hafa komist allvel áfram, og mér vitanlega hefir enginn þeirra þegið né beðið um opinberan styrk, og mundi slíkt kraftaverk þykja á Íslandi.

Eg vil ekki hæla um of lífinu hér í Selkirk, en að eins skal eg taka fram, að eg hef séð menn koma hingað á haustnóttum með heilsulausar konur og fjölda barna, og komast af yfir veturinn án þess að skulda eða þiggja opinbera hjálp.

Til dæmis skal eg geta um einn mann, Guðmund Guðmundsson, Húnvetning, sem hingað kom árið 1886. Hann kom hingað með konu sína, tengdamóður og 7 börn, og svo allslaus var hann, að á leiðinni gat hann ekki keypt skó á fæturna á fjölskyldu sinni. Hann var altaf hér í Selkirk þangað til hann dó, fyrir tveimur árum, og voru þá eignir ekkjunnar virtar á $2,500. Í því voru $1,000 lífsábyrgð, því, eins og flestir Íslendingar í þessum bæ, hafði hann keypt lífsábyrgð.

ÓLAFUR GUÐMUNDSSON NORDAL,
Húnvetningur.

---

SELKIRK, 12. maí 1899.

Eg flutti hingað vestur með fjölskyldu mína fyrir 11 árum, og hef dvalið hér í Selkirk síðan. Þegar eg settist hér að, voru hér að eins 4 íslenzkar fjölskyldur, enda var bærinn þá hér um bil ¾ minni og fólksfærri en hann er nú. Nú eiga hér heima um 400 Íslendingar.

Þó framfarir hafi af sumum verið álitnar litlar hér, hlutfallslega við ýmsa aðra staði í þessu landi, hefir þó þessi bær reynst farsæll þeim Íslendingum, sem hér hafa sezt að og ekki hafa haft sitt ráð um of á reiki. Allur þorri íslenzkra fjölskyldufeðra hér eiga sín eigin íbúðarhús og grunninn, sem þau standa á, flest-allir alveg skuldlaust.

Flestir eru þeir í heilsu- og lífsábyrgð og hafa eignir sínar trygðar fyrir eldsvoða. Aldrei hefir það komið fyrir hér enn, að Íslendingi hafi þurft að leggja af fátækra-fé, en í stöku tilfelli hefir verið skotið saman af frjálsum vilja handa veikum fjölskyldum, og þá meira, að mínu áliti, af meðaumkun og greiðasemi en að neyð hafi þar til knúð.

Íslendingar í Selkirk eru yfirleitt hraustlegir, frjálslegir og glaðlegir menn og virðast hafa mikla trú á framtíð þessa bæjar. Þeir flytja héðan fæstir aftur, þó löndin standi þeim nóg til boða gefins, þar sem þeir gætu orðið sjálfseignar-bændur og átt, að líkindum, enn þá glæsilegri framtíð fyrir hendi.

MATTHÍAS THÓRÐARSON.

---

HNAUSA, 16. janúar 1899.

Viðvíkjandi hag manna yfir höfuð í Gimli-sveit (Nýja Íslandi), skal eg taka það fram, að fullyrða má

að öllum líði þér vel. Ríkari gætu menn orðið með meiri framtakssemi, en allir hafa nóg fyrir sig og lifa næðissömu og rólegu lífi. Í sveitinni búa hér um bil 350 bændur. Ekki einn einasti af þeim, né nokkur í bygðinni, þiggur, á yfirstandandi tíma, sveitar-styrk. Sveitarreikningar, sem eg hef við hendina, sýna, að síðan árið 1892 hafa að eins $9.20 gengið til þurfamanna.

Hingað hafa komið margir allslausir ómaga-menn, sem eftir nokkur ár hafa haft góð efni. Stór kostur við þetta bygðarlag er sá, að á vetrum, þegar minst er um atvinnu yfir höfuð, þá er hún með bezta móti hér, við fiskiveiðar og flutninga.

Yfir höfuð virðast menn hér vel ánægðir og alment lýsa menn því yfir, að þeir hafi bætt kjör sín með því að flytja hingað.

JÓHANNES SIGURÐSSON.
(oddviti Gimli-sveitar).

---

BALDUR, 11. júlí 1899.

Herra W. H. Paulson.

Þér spyrjið mig, hvaða álit eg hafi á burtflutningi af Íslandi hingað. Hvort menn, sem hingað koma, muni skifta um til batnaðar. Hvort betra sé að koma hingað nú eða þegar þeir fyrstu komu, m. fl.

Það munu flestir, sem af sanngirni tala, segja, að sér finnist mikið betra að lifa hér en heima á ættjörðinni, því bæði er landið mikið frjósamara, stjórnarfar mikið betra, útgjöld minni, atvinna betri, svo að hver sá, sem hefir heilsu og nennir að vinna, hlýtur að bæta efnahag sinn, nema því meira óráð fylgi. Þó er mest gróðavon í því að taka heimilisréttarland, sem menn geta altaf fengið fyrir $10 og orðið eigend-

ur að eftir 3 ár. Altaf er hér nóg tækifæri til að fá slík lönd, þó það sé auðvitað erfitt að byrja þar búskap fyrir þá, sem fátækir eru.

Eg þekki bændur, sem tóku lönd fyrir 10—18 árum. Þeir voru þá efasamir um góða framtíð. Nú eru þeir orðnir vel efnaðir, og lönd þeirra, með byggingum, orðin 2—3 þús. dollara virði.

Það er mikið til af eins góðu landi enn ótekið, þó alt af séu menn að taka lönd, því geimurinn er mikill. Jafnóðum og landið byggist koma nýjar járnbrautir og með þeim nýtt fjör og framfarir, því þá er hægt fyrir bóndann að koma til markaðar afurðum bús síns, og að fá með sanngjörnu verði. það, sem hann þarf að kaupa.

Flestir segja, að það sé mikið betra að koma hingað nú en það var fyrst þegar menn fluttu hingað, því flestir eiga hér vini eða frændur, og þó það sé ekki, álíta landar það skyldu sína, að hjálpa og leiðbeina innflytjendum.

Síðan Íslendingar fóru að flytja til Ameríku, hefir aldrei verið betra að fá vinnu en í sumar.

Nú geta Íslendingar fengið vinnu hjá löndum sínum meðan þeir eru að kynnast. Eg þekki nokkra, sem hafa fengið $1 á dag og fæði strax og þeir komu; svo hækkar kaupið um uppskerutímann.

Það er fullkomin sannfæring mín, að margir hafi stígið sitt mesta heillaspor þegar þeir fluttu hingað af Íslandi, og eins mun það reynast þeim, sem koma hér eftir.

Virðingarfyllst,

Jón Björnsson,
frá Héðinshöfða

KJARNA Í NÝA ÍSL., 20. jan. 1899.

Herra W. H. Paulson, Winnipeg.

Eins og þú baðst mig, þá gef eg hér með í stuttu máli álit mitt um Ameríku, eða Canada, svo hlutdrægnislaust, sem eg get.

Eg álít Canada miklu betra land að bjargast á en gamla Ísland, og sem sönnun fyrir því tel eg það, að allslausir menn,—verkfærir, með þungar fjölskyldur, hafa eigi allfáir komið að heiman frá Íslandi, og sem að þremur eða fjórum árum liðnum hafa komist í þolanlegar kringumstæður, og sumir í góð efni, þó mállausir hafi verið og vankunnandi.

Að vísu eru hér ókostir, eins og allstaðar munu vera. En hugvit og dugnaður geta hrundið mörgum þeirra úr vegi. Einn ókost tel eg hér verstan, en það eru frostnætur á sumrum, sem stinga sér niður hér og þar um Ameríku, og gera valt sáðverk það, sem ekki þolir frost, og hveiti-bændur yrðu hér stór-ríkir á stuttum tíma ef þau frost ekki kæmu, og þá engir ókostir í þeirra stað. Að vísu verða hér ekki allir ríkir, Og það er heldur hvergi í heiminum. En hér er enginn á hreppnum, en stundum þarf að styrkja mann og mann í bili fyrir einhverjar sérstakar kringumstæður eða óhöpp.

Eg er búinn að búa hér í sama stað í 23 ár, ef eg lifi til sumars, en 29 heima.

Eg er nú ekki ríkur samt, en er miklu óhultari í búskap en eg var heima, og það tel eg ekki svo lítinn kost.

En að koma hér nú, tek eg ekki til samanburðar við að koma hér fprir 20 árum. Bæði er starfsviðið miklu stærra en þá var, og svo eru landar hvervetna til að taka á móti manni, sem leiðbeina og hjálpa.

Þegar eg fór til Ameríku, var eg í $110 skuld,

sem kunningi minn og góður maður slepti mér með. Svo kom hann eftir nokkur ár og gat eg þá hæglega borgað honum skuld mína.

KRISTJÁN V. J. KJERNESTED.

---

ICELANDIC RIVER, Man., í janúarm. 1899.

Viðvíkjandi því, hvort það hafi orðið Íslendingum í heild sinni til gæfu að flutningar hófust til Ameríku, leyfi eg mér að segja, að eg dreg engan efa, á að svo sé. Eg vil samt engan, sem í góðum kringumstæðum er á Íslandi, eggja á að koma, því hann á þar nokkuð á hættu. En eg mundi ráða öllum, sem örðugt eiga uppdráttar, til þess að koma, því það er svo margreynt, að þeir skifta um til hins betra.

Eg álít langtum álitlegra og betra fyrir fólk að koma frá Íslandi nú en var fyrir mörgum árum síðan. Nýbyggjara-erfiðleikar eru nú mikið minni en að undanförnu. Samgöngur eru betri, nauðsynjar allar langtum ódýrarari, atvinnu meiri að fá, þekking meiri á landinu o. s. frv. Nýkomnir Íslendingar njóta á stórkostlegan hátt þeirrar reynslu, sem áður komnir landar þeirra hafa fengið, auk þess sem þeir greiða fyrir þeim í byrjuninni á margan hátt. Bújarðir er enn að fá eins góðar og að undanförnu í þessu landi, en þekkingin til þess að velja þær heppilega er nú orðin mikið meiri.

Eg kom hingað frá Íslandi sumarið 1876, úr Öxnadal í Eyjafjarðarsýslu, og þó eg hafi aldrei orðið ríkur maður, þá hef eg komist af fyrir mig og mína og aldrei iðrast eftir að hafa hingað farið.

Mesta áherzlu af öllu legg eg þó á það, hve mikið álitlegri framtíðin er í þessu landi en á Íslandi fyrir þá,

er hér vaxa upp og njóta þeirrar ágætu mentunar, sem ungmenni hér eiga kost á.

Tómas A. Jónasson.

---

Gimli, Man., í febrúar 1899.

Sú er orsökin til þess að eg skrifa þessar línur, að herra W. H. Paulson hefir mælst til þess við mig, að eg segði álit mitt um það, hvort björgulegra sé fyrir fátæka menn að komast áfram í því plássi, er eg var kunnugur á Íslandi, eða þeim plássum, sem eg er kunnugur hér í landi. Hlutdrægnislaust álit mitt er þá það, að á því sé mjög mikill missmunur hve betra er að bjarga sér hjálparlaust í Manitoba, í hverri helzt stöðu sem maður er. En farsælustu og beztu framtíðina álít eg bændastéttina, og óbrigðulust mun kvikfjárræktin reynast í flestum árum, því það kemur varla fyrir að heyskapur nýtist ekki. Líka er hann svo fljóttekinn, þar sem vélum verður við komið.

það hefir verið eins og viðtekin regla þegar allslausir fjölskyldumenn hafa komið að heiman frá Íslandi, sem ekki hafa átt neitt athvarf hjá skyldmennum sínum, að þeim hefir verið ráðlagt að fara til Nýa Íslands, því sú hefir orðið reyndin á, að þeir hafa ekki þurft að svelta.

þó er nú þetta rírasta nýlendan, hvað hveitiræktina snertir, vegna þess, að skógurinn er svo mikill og erfitt að hreinsa landið, en moldin er bezt og feitust víða þar, sem skógur er mikill.

En það er veiðin úr vatninu, sem hefir hjálpað fólki. þar geta líka allir haft nóg fyrir sig af garðávöxtum, ekki síður en annarstaðar. Og ekki vantar

eldiviðinn né trjávið til bygginga, ef maður á einhverja skepnu.

Allstaðar er gnægð af beztu bújörðum ótekhum í Manitoba, hvort sem maður vill til akuryrkju eða kvikfjárræktar. Járnbrautir eru út um landið, eins, að sínu leyti, og æðar um líkama mannsins. Þetta er ekkert orðum aukið. Eg hef enga löngun til þess að tæla neina að heiman, en satt vil eg segja um þau atriði, sem eg minnist á. Það getur verið, að þessar línur verði lesnar í því plássi landsins, þar sem eg var lítið eitt þektur, sem var helzt í suðurparti Barðastrandarsýslu og í Strandasýslu.

Eg vil taka það fram, að það er eins ólíkt hvað öðru eins og hvítt og svart, hve mikið er betra að flytja hingað nú, en var fyrir rúmum 20 árum, þegar fyrstu hópar Íslendinga voru að koma sér hér niður, eftir sögusögn þeirra að dæma, sem þá komu.

Skyldur og gjöld þeirra manna, sem hafa land til ábúðar, mun vera nálægt $10 á ári.

SVEINN MAGNÚSSON.

---

BRÚ P. O., ARGYLE-BYGÐ, 27. júlí 1899.

W. H. Paulson, Esq.

Það var með okkur eins og svo marga aðra, að okkur langaði til að bæta okkar stöðu og hagsmuni, bæði okkar sjálfra vegna og barnanna okkar. Og svo kvöddum við gamla Ísland og kusum okkur framtíðarheimkynni hér í Manitoba.

Þegar við komum hingað, árið 1880, þá vorum við bláfátækir, mállausir og vankunnandi, með konur og börn. Atvinna sú, sem þá var helzt að fá, var að

grafa skurði, vinna að járnbrauta-lagning og bera múrgrjót við stórbyggingar í Winnipeg.

Að vísu var vinnan þung, en framtíðar-vonirnar, sem vöknuðu þegar dollararnir komu í aðra hönd, $1.50—$2.00 á dag, gerðu hana léttari, því þá kom strax í ljós, að maður var þangað kominn, sem unt var að bjarga sér og sínum.

Árið 1882 fluttum við til Argyle-bygðar, ásamt mörgum löndum okkar. Þá var hún að mestu óbygð. Þar tókum við löndin, sem við höfum búið á síðan, bygðum á þeim ómerkilega torfkofa og byrjuðum búskapinn með þá fáu dollara, sem við höfðum grætt á daglaunavinnunni í Winnipeg.

Síðan höfum við ávaxtað þann litla stofn, og innan tveggja ára gátum við bygt önnur betri hús, og síðan hafa umbæturnar vaxið með hverju ári, og nema þær nú, að byggingum meðtöldum, þúsundum dollara. Að vísu er eign okkar mjög mismunandi, því annar okkar er sjötugur og farinn að heilsu, en hinn 25 árum yngri; líka er hann nú mikið ríkari. Eignir manna í þessari bygð eru mjög misjafnar, en samt mundi enginn, sem hér hefir búið um nokkurn tíma, ekki hafa verið talinn bjargálnamaður á Íslandi, eins og þar stóð hagur manna þegar við fluttum þaðan.

Argyle-bygðin er auðvitað talin góð bygð og er því sízt að neita, að hún hefir hepnast vel, en mikill barnaskapur væri að halda, að ekki sé víðar um góðar bygðir að ræða í þessu landi. Sannleikurinn er, að Manitoba-fylki einsamalt hefir á boðstólum meira land en nægja mundi handa öllum Íslendingum, þó þeir væri hingað komnir, og þeim svo góðum, að þeir mundu hafa sig þar vel áfram efnalega líkt eins og við Argyle-bændurnir höfum gert. Sem dæmi upp á það, í hvaða áliti landið er í Norðvesturlandinu, má geta

þess, að fjöldi góðra bænda í beztu bygðum í Bandaríkjunum eru nú í óða önn að selja bújarðir sínar og nema eða kaupa land í Manitoba eða Norðvesturlandinu.

það liggur við, að það sé of mikil ættjarðarást, sem bannar mönnum að bjarga sér og sínum. Og sárast fellur okkur að vita landa okkar heima stríða við þá mörgu ókosti og óblíða náttúru, sem þar mætir manni, en hugsa ekki til að leita til þessa lands. það er þó ekki áhættuspil neitt nú, því reynsla okkar margra, sem á undan höfum komið og lifum hér ánægjusömu lífi, sannar kosti þessa lands, hvað sem hver segir. Og vellíðan bændanna í þessu landi er auðvitað því að þakka hve frjósamt landið er.

Af sönnum velvildarhug til bændanna á Íslandi, þó einkum þeirra, sem við örðug kjör eiga að búa, óskum við þess, að þeir hefði kjark og áræði til þess að flytja hingað vestur meðan þessi góðu tækifæri eru fyrir hendi að ná ágætu landi. þess iðrast þeir ekki, sem hingað hafa flutt, og betri arf gætu þeir ekki skilið eftir börnum sínum en að koma þeim á unga aldri til þessa lands, þar sem mentunar-tækifærin eru jafn góð og tækifærin til að bjarga sér og verða að nýtum manni hin mestu, sem nokkurt land í heimi hefir að bjóða.

Með virðing og vinsemd,

Björn Sigvaldason,
Jón Ólafsson.

---

Grund P. O., Man, 12. júlí 1899.

Herra W. H. Paulson hefir beðið mig að segja álit mitt um það:—

1. Hvort eg álíti heppilegan, áframhaldandi fólksflutning frá Íslandi til Canada.—Mitt álit er, að fólks-

ins vegna sjálfs (án tillits til þess, hvað sagt kann að vera heima á Íslandi), geri hver maður, hvort heldur einhleypur eða háður fjölskyldu, mikið betur með því að flytja til Vesturheims, vegna þeirrar einföldu ástæðu, að möguleikinn til góðrar afkomu, og í öllu falli til bættra lífskjara, er hér margfalt meiri en heima.

2. Hvort sé verra fyrir fólk að koma til Ameríku nú eða fyrir nokkrum árum. — Þessu er fljótsvarað. Það er enginn vafi á því, að fyrir 15—20 árum var mikið verra að koma hingað en á þessum tíma, vegna þess, að þá var lítil sem engin bygð í Manitoba, og þar af leiðandi frekar lítil atvinna. En aftur er bygðin orðin mikil nú og atvinnan margfalt meiri og fjölbreyttari, og yfir höfuð að tala er öll verkleg menning í svo mikilli framför, að varla verður annað sagt en að hver geti fengið það að vinna, sem hann vill.

3. Hvort líðan manna yfir höfuð sé betri hér eða heima.—Það er máske nokkuð vandasamt að gefa fullnægjandi svar upp á þessa spurningu vegna þess, að líðan manna er ekki öll komin undir fjárhagslegum ástæðum einstaklinga, heldur þeim kröfum, sem hver einstaklingur gerir til lífsins og nautna þess. En það er enginn vandi að segja það, að fjárhagslegar ástæður einstaklinganna og þjóðarinnar, jafnt Íslendinga og annara þjóða manna, eru svo hér, að það þolir engan samjöfnuð, og eg held mér sé óhætt að fullyrða það, að ef hinn fátækari hluti íslenzku þjóðarinnar þekti til hlítar þann mismun, sem er á lifnaðarháttum hér og heima á Íslandi, mundu næsta fáir velta því lengi fyrir sér að flytja hingað.

4. Hvort hægra sé að komast í efni hér en á Íslandi. —Það er engum vafa bundið, að þar sem allir geta fengið bújörð ókeypis, eins lengi og landið endist, og það jörð, sem undir flestum kringumstæðum gefur af

sér langtum meiri peninga en góð meðal-jörð á Íslandi, þá er auðvelt að verða hér sjálfstæður og komast í góð efni.

5. Hvort eg álíti ekki gnægð af landi enn í Manitoba og Norðvestur-Canada.—Ekki efast eg um það, að landrýmið hér sé nóg og langtum meira en allir Íslendingar þyrftu, þó þeir væri allir hingað komnir, og það mikið betra land en þeir hafa séð á Íslandi.

6. Hvort opinber útgjöld séu hér lík og á Íslandi.—Þessu er fljótsvarað. Hér er að eins einn skattur, sem tekinn er af fasteign. Tökum til dæmis land, sem virt er á $1,000. Af því verður skattur hér um bil $10. Alt lausafé er skattfrítt, svo lengi sem það nær ekki þúsundi. En úr því að lausafjáreign stígur þar yfir, eftir virðingu, er ákveðið að taka skuli skatt. Enn fremur 2—3 dagsverk til vegabóta. Þetta eru það lagalega ákveðnu útgjöld, sem bóndinn verður að borga.

Eg álít, að eg hafi nú svarað ofanrituðum spurningum eftir því sem þörf gerist. Þeir, sem kunnugir eru á Íslandi, geta sjálfir gert samanburðinn.

JÓN SVEINBJÖRNSSON.

---

GEYSIR P. O., 20. jan. 1899.

Eg undirskrifaður fór til Ameríku árið 1883 og var síðast á Kervaldsstöðum í Hjaltadal í Skagafjarðarsýslu. Líðan mín var hér fyrstu árin, sem vænta má, fremur erfið, þar sem eg hafði sárlítinn afgang þegar eg var kominn hingað, tók eyðiland og bygði yfir mig og mína.

Eg sé ekki ástæðu til að rekja söguna, hvernig gengið hefir, en skal að eins drepa á, hvernig kringum-

stæður mínar eru nú. Eg á bújörð, 160 ekrur; nautgripi á öllum aldri, 25 að tölu; nokkrar kindur og nauðsynlegar byggingar yfir skepnurnar, og viðunanlegt íbúðarhús. Eg hef alt af haft nokkuð þunga fjölskyldu, 7 manns, og má kalla líðan mína og minna góða. Bezt af öllu er þó það, að þetta, sem talið er hér, er eign, sem engin skuld er á. Líðan mjög margra er nú lík þessu, þó nokkuð mismunandi, því sumir eru ágætlega stæðir. Atvinnuvegir eru hér margir fyrir þá, sem þeim geta sætt, og varla þarf að óttast hér hallæri, eins og gengið hefir yfir mitt kæra fósturland, þó eitthvað hafi borið út af.

Hér er líka nóg landrými, en lönd eru misjöfn. Sum þeirra eru meira og minna skógi vaxin, en sum blaut og það til stórskaða hér í Nýa Íslandi, en þó hallar landinu svo, að þurka mætti það með framskurði. En máske að stjórnin fari nú að vakna af dvala sínum og bæta þann galla á landinu. Þá yrðu líka margar fleiri bújarðir í Nýa Íslandi, því það eru einkum heyskaparlönd, sem þannig eru á sig komin. En eðlilega hafa menn heldur sezt á þurra landið, þó það sé meira og minna skógi vaxið, sem seint gengur að ryðja, bæði til slægna og akuryrkju, en af rudda landinu er bezta heyið. Það er mjög líkt íslenzku töðunni. Um það get eg borið af eigin reynslu. Eg hef rutt 20 ekrur, og á Íslandi hefði það þótt allvænt töðuhey, sem eg fæ af nefndum bletti.

SIGURÐUR FRIÐFINNSSON.

---

Kafli úr bréfi frá Skafta Arasyni, frá Hringveri í Þingeyjarsýslu á Íslandi, nú bónda í Argyle-bygð, Manitoba, hljóðar sem fylgir:—

„Eg vil þá nú með nokkrum orðum leitast við að svara spurningum þínum. Þú spyrð mig, hvort eg álíti, þegar á alt er litið, mikið betra að vera bóndi í Ameríku en á Íslandi.

Þetta er nú nokkuð víðtækt spursmál. Ameríka er afarstórt land, með mjög mismunandi landkostum og loftslagi.

Eins og þú veizt, liggur Ameríka á vesturhelmingi hnattarins, alla leið frá kuldabeltinu að sunnan og norður í kuldabeltið að norðan. Maður getur því fundið í Ameríku eins köld og hrjóstug pláss eins og Ísland, og jafnvel verri. Þau pláss eru þó sumstaðar bygð af hálf-viltum mönnum eða námamönnum, og í stöku stað fiskimönnum.

En maður finnur hér líka fjarska stór héröð, eins frjósöm og blómleg eins og í betri hlutum Norðurálfunnar.

Eg ætla því að taka samanburðinn á búskapnum á Íslandi og þeim hlutum Ameríku, sem eg er kunnugastur, fylkinu Manitoba, og vil eg þá segja, að þar sé ólíku saman að jafna.

Í fyrsta lagi er það, að sá, sem vill verða bóndi, getur hér fengið bújörð fyrir ekkert, og þó valið hana úr mörgum jörðum í ýmsum sveitum. Að vísu er bújörð sú, sem maður þannig fær, ekki stór, en ef rétt er búið á henni, gefur hún talsvert mikið af sér. Jörðin hér er frjósamari og veðrið hagstæðara en á Íslandi. Bóndinn hér getur framleitt á sínu litla landi mikið fleira en bóndinn á Íslandi getur framleitt á sínu stóra landi. Hér getur bóndinn framleitt á landi sínu flest, sem hann þarf til að lifa á, til dæmis brauð, grjón, baunir, kartöflur og margskonar garðmat. Enn fremur egg, smjör, skyr, ost, nautaket, kindaket, svínaket og fuglaket, og ýmislegt fleira.



Íslendingar við heyskap í Argyle-bygð.

þér ógnar hvað bóndinn í Ameríku þarf að borga vinnuhjúunum hátt kaup. Já, það er hærra en á Íslandi, og það stórum mun. En gættu að því, að hér getur bóndinn unnið mikið þó hann hafi engin hjú, vegna, þess hvað hann hefir góð áhöld til að vinna með. Eg skal segja þér til dæmis, að á átta dögum hef eg heyjað 24 ton af heyi (Ton er 2,000 pund)— það er um kýrfóður á dag. Að slá það, raka, taka saman og flytja inn í hey. Þetta gerði eg með uxapari og 7 ára gömlum dreng, og verkfærunum mínum. Hvað þyrftu mörg hjú til að koma slíku í verk á jafn stuttum tíma? Þegar maður er farinn að búa nokkuð stórt, getur maður, í flestum árum, betur staðið við að borga háa kaupið hér, en bóndinn á Íslandi við að borga lága kaupið þar. Vinna mannsins gefur meira af sér hér og hann vinnur miklu meira vegna áhaldanna, sem hann hefir að vinna með. Vinnumaður er því mikið arðsamari fyrir bóndann hér en á Íslandi.

Það eru nú 18 ár síðan eg byrjaði hér búskap á 160 ekrum af landi, sem eg fékk gefins (heimilisréttarlandi), með fáeina nautgripa-ræfla. Eg kunni þá mjög lítið í tungumáli þjóðarinnar, þekti ekkert til að fara með verkfæri og kunni ekki neitt til jarðyrkju. Sem við var að búast, hef eg mörg mörg klaufastryk gert í búskapnum og framförin hefir orðið seinni en hún hefði mátt vera. En þrátt fyrir það þori eg að fullvissa þig um, að ef þú værir kominn með skýrslur einhvers góðs sveita-bónda á Íslandi yfir alla afurði af búi hans yfir árið, og bærir þær saman við ársskýrslu yfir bús-afurði mína, þá mundi minn reikningur verða mun hærri, og hef eg þó alt til þessa búið heldur litlu búi. Árið 1897 seldi eg afurði af búi mínu fyrir meira en hálft þriðja þúsund dollara. Þar

er auðvitað ekki talið með það, sem gekk til brúkunar á heimilinu sjálfu.

Þú spyrð mig: „Heldur þú að innflytjendur, sem koma til Manitoba nú, hafi eins gott tækifæri eins og þið, sem komuð þangað fyrir mörgum árum síðan?“

Eg sé ekki betur en að þeir hafi nú í mörgu tilliti betra tækifæri. Þeir, sem fyrst komu, mættu mestum erfiðleikum. Þá var enginn landsmaður þeirra hér fyrir til að leiðbeina þeim í nokkru tilliti, en nú er Íslendinga nálega allstaðar að finna, sífelt fúsa til að leiðbeina nýkomnum mönnum, og fjöldamargir af þeim þurfa vinnufólks með og eru því fúsir að veita löndum sínum atvinnu, jafnvel þó að nýkomið fólk þyki ekki bezta vara á vinnufólks-markaðinum. Atvinna er mikið meiri og vinna betur borguð nú, en var fyrst þegar við komum hingað, að minsta kosti úti á landsbygðinni hjá bændum. Eg held að það sé mikils virði fyrir nýkominn mann að geta fengið vinnu hjá landsmanni sínum á meðan hann er að læra vinnuna og venjast öllum kringumstæðum. Það er þreytandi og einmanalegt að setjast að hjá fólki, sem maðekki skilur, og þegar það svo bætist við, að maður veit ekkert hvernig á að bera sig til við þau verk, sem manni er ætlað að vinna. Þeir erfiðleikar fyrir nýkomið fólk eru nú nálega horfnir.

Þeir sem vilja eignast land og gerast bændur, sem mér finst að flestir Íslendingar ættu að gera, sýnist mér að hafi eins gott tækifæri nú og fyrri ef þeir vilja leggja á sig þá erfiðleika, sem því vanalega fylgja að byrja búskap úti í lítið eða ekkert bygðum héruðum, með mjög litlum efnum.

Við, sem búnir erum að reyna þesskonar, getum borið vitni um að það er strit, sem borgar sig með tímanum, ef maður ásetur sér að verða nýtur bóndi

og viljakrafturinn ekki bilar. Bújörðin borgar þá þeim, sem velur sér hana og að henni vinnur með heilbrigðri skynsemi.“

---

HÚSANÍK P. O., NÝA ÍSLANDI, 26. jan. 1899.

KÆRI VINUR.—Þú spyrð mig um, hvernig mér líki að búa hér, í samanburði við á Íslandi, og hvað eg geti talið því til gildis, ef eg álíti það betra.

Það er fljótsagt, að mér þykir mikið betra að búa hér en heima á Íslandi. Það er svo miklu reglubundnari veðurátta hér en á gamla landinu. Þó vetur sé hér heldur langur og kaldur, þá er hann undantekningarlítið oftast þur. Hann byrjar vanalega með nóvember-byrjun og ætíð er orðið snjólaust á sumarmálum. Svona hefir það verið í 23 ár, síðan eg kom hingað fyrst. Að eins einu sinni varð snjólaust í miðjum marzmánuði. Maður getur ætíð vitað fyrirfram, svona hér um bil, hvernig veturinn muni verða. En það er, sem kunnugt er, öðru nær en að það sé hægt á Íslandi. Það er nokkur munur á því, hvað sum sumur—eru þurkasamari en önnur. Rigningar á sumrum eru stundum miklar, helzt þrumuskúrir. En að öllum jafnaði eru hér miklu fleiri sólskinsdagar en regndagar, og mikið meiri og jafnari hiti en heima. Fellibyljir hafa ekki komið hér svo teljandi sé og sjaldan hefir orðið skaði af eldingum. Eg man ekki eftir að nema 2 gripir hafi drepist hér í byggðinni af eldingu. Þú segir, að orð leiki á því, að hér séu vondar flugur, og vilt að eg geti um það. Já, það er víst, ekki eru flugurnar góðar hérna, en þó er mikið meira af þeim við Mývatn og í Laxárdal. Eg álít, að hér séu þær ekki meiri en ¼ á móti því, sem þar er. En þær bíta ver hér og elta menn og skepnur inn í hús. Mér

virðist, að þær fari heldur minkandi á seinni árum, sem kemur líklega af því, að bygðin er að aukast og skógurinn að verða gisnari. En þegar talað er um flugur hér, þá má ekki gleyma flugum, sem „Bull Dogs" nefnast. Þær eru nokkru stærri en fiskiflugur. Þær eru vondar um 6 vikna tíma og stinga hross og nautgripi, en menn ekki. Oft vara þær skemur og eru lítið til meins. Það ber ekki á þeim í rigningu og lítið ef þykt loft er.

Ef menn ættu að setja það fyrir sig, að í Nýa Íslandi væri ekki verandi fyrir þessum flugna-vargi, þá ættu allir Mývetningar og Laxdælir að vera fyrir löngu flúnir út á Tjörnnes. En þeir hafa ekki gert það á þessum 1,000 árum, sem liðin eru síðan þessar bygðir hófust.

Af því, að hiti á sumrum er hér lengri, stöðugri og meiri en heima, leiðir það, að allur jarðargróði er hér meiri en þar. Af eigin reynd get eg borið um það, að kartöflu-uppskera er að meðaltali tólf-föld. Það mesta, sem eg hef fengið, var 26-föld uppskera, en minsta uppskera var áttföld.

Benedikt Arason,
Úr Þingeyjarsýslu.

---

Icelandic River, í janúar 1899.

Sveitin, sem eg undirskrifaður vár síðast í á Íslandi, var Fellin í Norðurmúlasýslu. Jörðin, sem eg var á síðast, heitir Skógargerði. Síðan eg kom til þessa lands eru rétt 20 ár, og hef eg allan þann tíma dvalið í Nýa Íslandi. Hingað kom eg með að eins eitt gripsverð. Síðan hef eg eignast tvö lönd, annað með heimilisrétti, en hitt keypt. Á öðru landinu er nýlegt timburhús, gripahúsin, sáðlandið og bithaginn

Hitt landið er mestmegnis engjaland, sem fóðrar í meðalári 40 nautgripi, og 50 fjár. Skepnueign mín er nú 26 nautgripir 1 hestur og 20 kindur.

þó að téð eign sé í sannleika ekki mikil, í samanburði við eign ýmsra annara landa minna í þessu fylki, þá er þó um þessa eign að segja, að hún er alveg skuldlaus, og miklum mun meiri en nokkrar líkur eða mögulegleikar eru til að hún hefði orðið á Íslandi, þó eg hefði verið heima til þessa dags.

Á þessu 20 ára tímabili höfum við hjónin að meira eða minna leyti alið upp 9 börn.

Af eigin reynslu hef eg sannfæringu fyrir því, að hér sé mikið betra að komast áfram efnalega en á Íslandi, sérstaklega fyrir velvinnandi fólk, sem á erfitt uppdráttar heima.

Ekki er minstur munurinn á uppfræðslu alþýðubarna hér og var á Íslandi þegar eg þekti til. Hér á hvert mannsbarn aðgang að skólum án nokkurs aukakostnaðar, svo lengi sem það vill hagnýta sér að ganga á alþýðuskólana.

SIGFÚS PÉTURSSON.

---

WESTBOURNE, 9. apríl 1899.

W. H. Paulson, Esq.

KÆRI HERRA.—þessar línur sendi eg þér í þeim tilgangi, að fræða frændur mína og vini á Íslandi á ýmsu, sem þá kann að langa til að vita, ef þeim kynni að detta í hug að flytja hingað.

Íslendingum í Canada líður mikið betur yfir höfuð en löndum þeirra á Íslandi. Góðar bújarðir er enn að fá fyrir þúsundir manna í Canada.

Atvinna er eins góð hér nú og hún hefir verið

nokkru sinni áður. Vinnan er léttari en á Íslandi, og fólk þarf því ekki að leggja meira á sig hér en þar.

Tíðarfar er betra en á Íslandi, rigningar minni.

Kvikfjárrækt borgar sig margfalt betur hér en á Íslandi. Til dæmis að taka gefur kýrin af sér 150 pund af smjöri um árið, ef vel er á haldið, og fæðir kálfinn sinn þar að auki. Verð á nautgripum var tvö síðastliðin ár þetta: ársgamlir uxar, $12—$15; tveggja ára, $22—$27; þriggja ára, $30—$42.

Sem dæmi upp á heyskap má geta þess, að bóndi hér í sveitinni heyjaði síðastliðið sumar handa 60 nautgripum á 6 vikum, með 2 hestum og 12 ára gömlum dreng sér til hjálpar, og heyrði eg engan tala um, að það væri neitt fram úr skarandi.

Skólar eru hér margir og góðir fyrir unglinga.

Eg hef engan talað við, sem búinn er að vera hér nokkuð, sem yðrast eftir að hafa komið hingað; og því síður veit eg af nokkrum, sem vildi vera kominn heim aftur til Íslands til að búa þar.

Eg álít ráð fyrir fólk að flytja hingað, sem ekki getur látið sér líða vel á Íslandi, og jafnvel fyrir hina líka. Þeir gera það þá fyrir börnin sín.

Eg álít að Canada eigi góða framtíð.

Berðu kæra kveðju til frændanna og vinanna og til gömlu Fjallkonunnar.

INGIMUNDUR ERLENDSSON.

---

GEYSIR P. O., í janúarmán. 1899.

Eg undirskrifaður kom frá Íslandi árið 1883. Bjó síðast á Teigi, í Óslandshlíð, í Skagafjarðarsýslu.

Þegar hingað kom var eg allslaus, en í 80 króna skuld. Hef eg síðan altaf átt heima í þessu bygðarlagi

og jafnan liðið vel, þó að líkum ráði að eg átti fremur örðugt fyrstu árin, með stóra fjölskyldu, nú sem stendur 8 manns.

Það, sem eg hef eignast síðan eg kom hingað, og sem er með öllu skuldlaust, er sem fylgir: Land, 160 ekrur, sem er vel fallið bæði til akuryrkju og kvikfjárræktar. Á landinu á eg nýtt timburhús, 20 fet á lengd og 15 fet á breidd, með viðauka 12x10 fet. Hús yfir 28 nautgripi. Skepnueignin er 28 nautgripir, þar af 8 mjólkurkýr, 3 fullorðnir uxar, en hitt ungviði. Kindur á eg að eins 15, og 20 alifugla. Meðal innanhúss muna má nefna saumavél og prjónavél er kosta yfir $70.00, 1 matreiðsluvél, 2 hitunarôfna.

Eg þarf naumast að taka það fram, að eg álít mikinn mun á fyrir fólk að komast af hér eða heima á gamla landinu. Landkostir eru hér betri, landrými yfirfljótanlegt, atvinna talsverð, og tíðarfar betra og að mínu áliti líðan landa minna hér mikið betri en á Íslandi.

JÓNAS ÞORSTEINSSON.

---

BRÚ P. O., 11. júlí, 1899.

Eg hef verið beðinn að gefa álit mitt um það, hvort mér líki betur að búa hér eða á Íslandi. Mér er ánægja að lýsa yfir því, að mér líkar það hér mikið betur. Eg segi það af sannfæringu og í einlægni, en trúna get eg engum gefið.

Eins og kunnugt er, þá er Ameríka stór, með margbreyttum auðsuppsprettum. Ein þeirra er akuryrkjan, og hana hef eg mestmegnis stundað um síðastliðin 18 ár. Þeir, sem ekki þekkja til landkosta hér, álíta, að lítið verði gert með þær 160 ekrur, sem maður

fær hér fyrir $10. þeir halda ef til vill, að það fleyti að eins einni belju og einum kálfi eða svo, en ef þessar 160 ekrur eru rétt meðhöndlaðar, þá verða þær fljótt mikils virði því maður getur á þeim framfleytt stórri fjölskyldu. Landið, sem ég tók, varð eftir 5 ár $1,000 virði.

Nokkrum kann að þykja þetta há virðing, en hún er það enganveginn eftir afurðunum, því þessi blettur hefir ekki einusinni viðhaldið fjölskyldu minni, heldur hefir orðið af því gróði svo mikill, að eg hef getað aukið efni mín. Eftir því sem bygðin hefir vaxið og járnbrautir færst nær, þá hækkar líka land í verði. Því til sönnunar skal eg geta þess, að núna fyrir tveim vikum keypti eg land, 160 ekrur, fyrir $3,500.00.

Þegar við Argyle-bændurnir fluttum hingað þá var þetta svæði í eyði og ekki í meira áliti en ógrynni af óteknu landi í Canada er þann dag í dag. Þetta bygðarlag hefir blessast okkur vel og af því ég hef þá skoðun, að mörg hin ónumdu svæði muni blessast þeim, er þau nema viðlíka vel, þá er eg því hlyntur, að landar mínir á Íslandi flytji hingað vestur.

Þorsteinn Jónsson,
úr Þingeyjarsýslu.

---

Brú P. O., 20. júlí, 1899.

Herra W. H. Paulson.

Í tilefni af beiðni þeirri að eg léti í ljós álit mitt á flutningi Íslendinga til þessa lands, skrifa eg eftirfylgjandi orð:

Eg fór frá Íslandi haustið 1874 og staðnæmdist í Ontario-fylki. Þá var komið undir veturnætur. Það var álitlegt eða h[illegible]eldur. Eg hafði aðeins kr. 24 í

vasanum, svo öllum getur verið það ljóst, hve mikla auðlegð eg flutti með mér frá föðurlandinu. Eg dvaldi með fjölskyldu mína um veturinn í þessu ókunna landi, og mállaus, því ekki hafði eg þá numið hérlenda tungu. En eins og geta má nærri, mátti ég ekki standa með hendurnar í vösunum. Við erfiðustu vinnu fékk eg aðeins 90 cents á dag og þætti það lítið nú á tímum. En það dróg sig saman, og með þessu gat eg þó inn unnið $100.00 um veturinn. Þetta þótti okkur ágætt. Eg hafði unnið erfiða vinnu áður fyrir lítið kaup. Svo að jafnvel þetta þótti mér mikil laun. Nú er eg búsettur í Argyle-bygð og líður mæta vel. Eg álít því, að það sé heillaríkt fyrir Íslendinga að flytja hingað. Það er ómótmælanlegt, að mörgum hefir vesturför þeirra orðið til mikillar blessunar.

Viðvíkjandi flutningi Íslendinga hingað nú, má segja, að það er mun hægra og skemtilegra en áður var. Hér eru vinir, frændur og kunningjar að bjóða þá velkomna.

En þess ber líka að gæta, að hér er ekki gripið gullið upp úr steinunum; maður verður að vinna til þess að manni vegni vel.

Vinsamlegast,

Símon Símonarson,
frá Heiðarseli.

---

Húsavík, Nýa Ísland, í janúar, 1899.

Kæru landar mínir.

Mér finst það skylda mín að láta í ljósi álit mitt viðvikjandi gagnsemi þessa mikla landflæmis, sem hér er bygt og óbygt undir yfirráðum Breta, sem hafa bæði vilja og mátt til að stjórna því vel og viturlega.

Hér í Manitoba er mikið eftir af óbygðu góðu

landi, sem hver getur tekið sem vill. Þó þér kæmuð allir, landar mínir, að heiman, þá gætuð þér ekki tekið tíunda partinn af heimilisréttarlöndum, sem liggja hér vestur og norðvestur. Þetta landflæmi alt er sundurskorið af ám og vötnum, sem hvervetna eru full af fiski. Eg þekki enga veiðistöð á Íslandi eins fiskisæla og Winnipeg-vatn.

Hér er mjög reglubundið tíðarfar. Allur snjór er farinn á sumarmálum; það bregzt ekki. Hér koma ekki neinir fellibyljir í Manitoba, ekki einu sinni eins sterkir vindar eins og á gamla landinu. Hér koma nokkuð snörp frost, einn og tvo daga í einu, í janúar og febrúar, en menn þola kuldann betur hér en heima. Því til sönnunar skal eg geta þess, að einmitt nú, á þessum kaldasta tíma, er fjöldi manna út um allan ís á Winnipeg-vatni, að veiða fisk í net. Og eg hef aldrei heyrt þess getið að nokkurn mann hafi kalið við það kalda og karlmannlega starf.

Þetta er mjög arðsöm atvinnugrein, því fiskurinn er í háu verði.

Atvinnugreinarnar eru hér margar og borga sig vel. Annars væru þær ekki stundaðar. Hveitiræktin gefur bændunum mesta peninga á styztum tíma. Kvikfjárræktin er hér mjög arðsöm. Hún getur ekki brugðist ef laglega er á haldið. Jarðvegurinn er víðast ágætur, en allstaðar brúklegur. Vinna er ætíð fáanleg fyrir þá, sem vilja vinna; og kaupgjald gott, og borgað út í hönd.

Hér er algert trúarfrelsi. Þeir hafa presta, sem vilja, og borga þeim, en hinir ekki. Útgjöld eru nálega engin til þess opinbera. Svo sem $6 af heilu landi ákveðið með lögum.

Hér er gott stjórnarfar. Ef stjórnin reynist illa,

er henni vikið frá völdum og aðrir menn kosnir í hennar stað.

Ég hef ekki fundið neinn hér, sem ekki er ánægður yfir því að vera sloppinn úr volæðinu og kúguninni heima, hingað vestur yfir hafið. Hér geta allir orðið vel efnaðir, sem hafa bærilega heilsu og ekki eru mestu letingjar og óreglumenn,—þeir þrífast hvergi. Hér eru svo góð samgöngufæri, bæði á vatni og landi, að þau eru hvergi betri.

það er sannarlega mikill munur á því fyrir landa að koma hingað til landsins nú, eða var fyrir 25 árum. Nú koma þeir beina leið til Winnipeg. þar hitta þeir landa sína fyrir, sem eru reiðubúnir að hjálpa þeim og leiðbeina, eftir því sem hverjum hentar bezt. Og hvar sem farið er um Manitoba, er Íslendinga að finna, í stærri og smærri hópum.

Mig furðar mjög mikið á því, hve fáir Íslendingar koma að heiman hin síðari árin, þeir ættu þó að vita, hve mikið betra er hér að komast áfram. þeir vita, að menn skrifa ekki ósannindi til vina og vandamanna heima, og samt sitja þeir kyrrir nema svo sem einn af þúsundi, sem hefir drift í sér til að koma vestur yfir pollinn. þegar bærilega lætur í ári, þá ættu menn að nota tækifærið og koma, því þá er bezt að komast. þegar hörðu árin koma, þá vilja margir koma, en þá komast þeir ekki. þeir þurfa að vera forsjálir og grípa tækifærið þegar það gefst.

þegar eg fór frá Sauðárkrók í Skagafirði, fyrir 10 árum síðan, með konu og 3 börn, þá varð eg að taka nokkuð á annað fargjald til láns til að geta komist vestur, sem eg hef nú borgað. þegar eg kom til Winnipeg hvíldi eg mig hjá kunningjunum viku tíma. þaðan fór eg til Nýja Íslands og lifði framan af mest af afla úr vatninu, og hafði nóg fyrir mig og mína.

þar var eg í 4 ár. Svo flutti eg á landið, sem eg er á nú. Er að mestu leiti hættur að veiða fisk, því eg þarf þess ekki lengur, en hef nóg af öðru og horfi nú glaður og ánægður á glæsilega framtíð fyrir mig og mína.

SVEINN SIGURÐSSON,
úr Hjaltadal í Skagafirði.

---

ICLANDIC RIVER P. O., í janúar 1899.

Frá Íslandi kom eg árið 1876. Var síðast á Eskifirði í Norðurmúlasýslu. Eg var einn af þeim mörgu, sem efnalaus kom frá Íslandi. Mér hefir liðið vel efnalega síðan eg kom. Þakka eg það einkum tíðarfarinu og landkostum, sem hvortveggja er mikið betra hér en heima.

Það er heldur engin undantekning með mig, því allur þorri fólks, sem komið hefur frá Íslandi bláfátækt og sem hefur haft heilsu og menning í sér til að vinna, hefir orðið hér vel efnað, eftir því, sem talið var á Íslandi, eftir fá ár. Það er því fylsta sannfæring mín, að alt fátækt fólk, sem er vel vinnandi, ætti af ítrasta megni að reyna að komast til þessa lands, og það því heldur, sem nóg tækifæri eru hér til að fá, hvort sem maður vill bújarðir eða atvinnu.

PÉTUR ÁRNASON.

---

HNAUSA P. O., NÝA ÍSLANDI, í jan. 1899.

Eg kom til Ameríku árið 1876, og hef alla tíð síðan verið í Nýa Íslandi. Sjálfum hefur mér liðið fremur vel og aldrei yðrast þess að eg flutti hingað. Yfir höfuð líður mönnum mikið betur hér en á Íslandi.

Tækifæri eru hér margfalt fleiri til að bjarga sér. Þótt fyrirtæki mishepnist, geta menn ætíð snúið sér að öðru, meðan heilsa endist. Hér má heita að allir þeir, sem hug hafa á að komast áfram, hafa ætíð til þess vegi. Atvinna hefir aldrei að staðaldri verið betri en nú. Mikið er enn hér af góðu landi ónumið. Erfiðleikar á fyrstu árum fyrir nýkomna Íslendinga eru nú mikið minni en að undanförnu, því þeir njóta ýmsra leiðbeininga og aðstoðar, ef þeir þurfa, hjá löndum sínum hér. Tíðarfar er langt um betra hér, en aðalkosturinn við það er, hvað það er reglubundið.

Auðvitað líður mönnum misjafnt hér. Ekki verða allir ríkir. En fátæklingum líður hér mikið betur en heima, og margir blásnauðir menn, sem hingað hafa komið með þungar fjölskyldur, hafa komist hér vel áfram og jafnvel í góð efni.

Óhikað mundi eg ráða öllum, sem örðugt eiga uppdráttar á gamla landinu, til að flytja hingað.

SIGURSTEINN HALLDÓRSSON.

---

SINCLAIR, Manitoba, 1. júlí 1899.

W. H. Paulson, Winnipeg.

KÆRI HERRA.—Samkvæmt ósk þinni vil eg með fáum orðum láta í ljósi álit mitt á landsvæði því, sem Íslendingar hér búa mestmegnis á, og eins skoðun mína á því, hvort heppilegt sé, að fólk á Íslandi flytji sig hingað til Norðvestur-Canada.

Fimtán ára reynsla mín hér í Manitoba-fylki hefir sýnt mér, að jarðvegurinn er framleiðslu-ríkur, að hér vaxa kjarnmestu korntegundir, sem annars vaxa á sama breiddarstigi, að eftirsókn og álit Manitoba-hveitisins fer ár frá ári vaxandi á heimsmarkaðinum.

Um leið og þurra landið (the prairie) er yfirleitt ágætlega fallið til akuryrkju, þá eru og engjar og bithagar einkar vel fallið til búpenings-ræktar. Geldneyti fá prýðis góð hold á hinum grösugu sléttum yfir sumarið. Kostnaðarlítið er að halda því við yfir veturinn. Góður og víðtækur markaður æfinlega fyrir sláturfé, jafnt naut og sauði. Mjólkurkýr gera gott gagn, hvort heldur til smjörs eða ostagerðar. Smjör- og osta-gerðarhús eru nú komin mjög víða og fara einatt fjölgandi. Verkstæði þessi eru til mikils hagnaðar og þæginda fyrir bændur.

Bændastéttin í þessu fylki er með löggjöf vel vernduð fyrir viðskifta-okrurum, knífandi lögtökum og öðru, sem gæti gjörsneitt bóndann af bústofni hans.

Bændur úr hinum beztu löndum Norðurálfunnar og frá hinum velmegandi Bandaríkjum una vel hag sínum í Manitoba, og margir þeirra, sem eg hef talað við, vildu alls ekki skifta kjörum sínum fyrrum og nú. Framför landbúnaðarins og fylkisins í heild sinni, hefir verið fram úr skarandi síðastliðin 10—15 ár.

Þetta er velmegunarinnar land; land jafnréttis og fríhugsunar, landið, þar sem hver getur notið sinna eigin hæfileika. Þetta er framtíðarinnar land. Fyrir hraust, iðjusamt og siðsamt fólk er þetta land af náttúrunnar hendi útvalið.

Það er sannfæring mín, að allur fjöldinn af fólki á Íslandi væri hér betur kominn, og gæti með því bætt kjör sín margfaldlega.

Eg var unglingur þegar eg fór frá gamla landinu, og síðan hefir þar flest versnað, fátt batnað, og væri eg þar nú og sæi alt eins og það var í minni sveit, til lands og sjávar, efnahag og verzlun, pólitík og vinnu-

leysi, ja, þá væri ég ekki í rónni fyr en eg kæmist til Norðvestur-Canada aftur.

Með vinsemd, þinn

MAGNÚS TAIT,

frá þingvöllum við Stykkishólm.

---

SELKIRK, 18. janúar 1899.

MR. WILHELM H. PAULSON.

KÆRI HERRA.—þér hafið eigi alls fyrir löngu gefið mér í skyn, að yður væri umhugað um að fá álit mitt á því, hvernig Íslendingar, sem búnir eru að dvelja nokkur ár í þessu landi, uni hag sínum. Hvernig þeim líði í efnalegu tilliti og hvernig framtíðarvonir þeirra eru fyrir sig og sína.

Mér er sönn ánægja að nota þetta tækifæri til þess að láta í ljósi álit mitt á ofannefndnm atriðum. En áður en eg fer lengra, út í það mál, ætla ég að geta þess, að þó eg hafi dvalið í þessu landi i 11 ár, er sjóndeildarhringur minn óvenjulega þröngur, vegna þess, að mestan hluta þessara 11 ára hef eg dvalið í þessum litla, fámenna og fátæka bæ, Selkirk, og af öllum þeim atvinnuvegum, sem þetta land hefir að bjóða, hef eg vafalaust valið mér þann langlakasta, sem er daglaunamanns staðan.

Og svo er ekki nóg með það, að eg er sjálfur fátækur daglaunamaður. Hér í bænum munu vera yfir 100 íslenzkar fjölskyldur, sem flestar lifa á daglaunavinnu. þegar eg kom hingað fyrir 9 árum síðan, voru þær um 40. En síðan hefir verið stöðugur innflutningur hingað til bæjarins af Íslendingum, sem flestir hafa komið hingað gjör-snauðir, og sezt svo hér að.

þetta, sem hér er sagt, ætti að geta verið til leið-

beiningar fyrir yður, eða hvern þann, sem kynni að vilja sjá með eigin augum fátækasta bygðarlagið, sem Íslendingar hér í Vesturheimi hafa valið sér, því naumast munu neinstaðar jafnmargir og tiltölulega jafn fátækir Íslendingar vera samankomnir á örlitlum blétti, eins og einmitt hér í Selkirk.

Það er eðlileg afleiðing af þessum stöðuga innflutningi snauðra manna hingað til bæjarins, að vinnulaun eru hér svo lá, að naumast munu þau vera lægri annarsstaðar, þar sem Íslendingar eru hér vestan hafs.

Eftir þessu mætti ætla, að hagur vor væri næsta bágborinn, og mér dettur ekki í hug að neita því, að nokkrar fjölskyldur, einkum á meðal þeirra, sem á síðustu árum hafa flutt sig hingað, séu gjörsnauðar. Hitt er aðal-reglan, að þeir, sem dvalið hafa hér ári lengur, eiga bæjarlóð og hús á henni, og eitthvað af skepnum, einkum mjólkurkúm. Auk þess hafa flestir íslenzkir fjölskyldufeður keypt sér lífsábyrgðir fyrir einu eða fleiri þúsundum dollara.

Eg geri ráð fyrir því, að bræður okkar á Íslandi, margir hverjir, verði ekki lengi að átta sig á því, að það sé ekki teljandi með dásemdarverkum drottins, þó að alslausir Íslendingar lifi hér í Selkirk eins og annarsstaðar, því þar sé að sjálfsögðu bæjarsjóður og á honum lifðu náttúrlega þeir, sem ekki geta bjargað sér sjálfir.

Mér er sönn ánægja að geta gefið skýringar á þessu atriði, sem hrinda gersamlega slíkum staðhæfingum. Og vegna þess að mig langar til að segja allan sannleikann um þetta mál, skal eg geta þess, að síðan eg kom hingað veit eg ekki til að einn einasti Íslendingur hafi notið styrks af bæjarsjóði. Eg man að eins eftir því, að einu sinni voru bannaðar samgöngur við bláfátækt íslenzkt heimili, sökum barnaveiki. Og



Íslenzkt bónda-býli í Argyle-bygð.



Íslenzkt bónda-býli í Argyle-bygð.

kom þá til tals að fá handa fjölskyldunni ofurlitla hjálp frá bæjarstjórninni. En þá gekkst bæjarstjórinn, ásamt nokkrum Íslendingum fyrir frjálsum samskotum handa þessu fólki, svo alt komst vel af. Í öðru sinni var leitað til bæjarstjórnarinnar fyrir bláfátæk hjón, nýkomin frá Íslandi, og fór það á sömu leið. Og Íslendingum í þessum bæ til maklegs heiðurs mætti geta þess, að þegar veikindi eða eitthvert annað ósjálfrátt böl hefir komið fyrir einstaklinga eða fjölskyldur, þá hafa þeir vanalegá gèngist fyrir frjálsum samskotum þeim til hjálpar, eða aðstoðað þá á annan hátt.

Því hefir verið haldið fram, að hagur verkamanna í bæjunum væri orðinn mjög bágborinn og færi sífelt versnandi sökum þess, að vinnan í þeim minkaði ár frá ári og vinnulaunin lækkuðu að sama skapi. En það er ekki til neins að koma með neinar slíkar staðhæfingar, því einmitt á síðasta sumri, eða síðustu sumrum, var meiri vinna og hærri daglaun í Winnipeg, þar sem Íslendingar eru flestir í bæ, hér vestra, en nokkru sinni áður síðan á hinum svonefndu „boom“-árum 1880—82. Auk þessa hefir verð á flestum lífsnauðsynjum lækkað á síðustu árum, t. d. um helming á kaffi, þriðjung á sykri, um ¼—⅓ á fötum og fataefni, o. s. frv. Sé þess vegna ómkvörtunin um hag verkamanna á nokkru bygð, þá verður að leita að orsökunum annarstaðar. Menn, sem koma allslausir heiman af Íslandi, setjast venjulega helzt að í bæjum hér vestra, og fyrst í stað eru lífsþarfir þeirra litlar. Þeim bregður við að fá vinnu sína vel borgaða, og una sér hið bezta. En þegar fyrstu 2—3 árin eru liðin aukast lífsþarfirnar ótrúlega fljótt. Það eru kröfur lífsnautnarinnar og menningarinnar, sem margfaldast, en daglaunin gera það ekki að sama skapi, og þetta getur gert dálítinn reikningshalla.

En hvað sem daglaunavinnu líður, álít eg, að fátækir Íslendingar séu mjög vel settir um þessar slóðir, því auðæfin í skauti náttúrunnar eru hér umhverfis ótrúlega mikil. Það er að eins Rauðá, sem skilur þenna bæ frá hinu afarmikla skóglandi, sem nær—ef

til vill—alla leið norður að Íshafi. En hérna megin árinnar, norður frá bænum, byrjar hið afarmikla engjaland, sem nefnt er „flæðar" og sem liggur alla leið norður að Winnipeg-vatni, sem er um 20 mílur héðan. Það er spursmál, hvort þetta engjaflæmi gæti ekki í þurkaárum fóðrað eins marga gripi og til eru á öllu Íslandi. Auk þess er hér vestur frá bænum, í 10—18 mílna fjarlægð, hinn svonefndi St. Andrew's-flói, sem fylkisstjórnin er að láta þurka upp, og kvað svo ætla að selja fyrir 2—3 dollara ekruna. Hann er sagður að vera 140,000 ekrur, og á stórum pörtum, eitthvert hið inndælasta gripa- og slægju-land, eftir sögn Íslendinga hér í bænum, sem hafa unnið að uppþurkun hans.

Þegar þess er gætt, að Winnipeg og Selkirk bæir eru hvað eins fáar mílur frá einu hinu frjósamasta hveitiræktarlandi heimsins, og tekið er tillit til hinnar takmarkalausu griparæktar, sem hafa má með litlum kostnaði hér nærlendis, þá liggur í augum uppi, að atorkusamir menn reyna heldur að hagnýta sér eitthvað af þessari framleiðslu, en að sitja og svelta í bæjunum von úr viti. Í votviðra-árum spilla flugur og bleytur gripalöndum þar sem láglent er, og í þurka árum eru hausteldar oft hættulegir. En þetta, hvort fyrir sig, verður sjaldan búhygnum mönnum að verulegu tjóni.

Og þegar um auðævi náttúrunnar, hér í grendinni, er að ræða, ætti eg ekki að gleyma hinu fiskauðga Winnipeg-vatni. Hann skiftir ekki þúsundum eða tugum þúsunda fiskurinn, sem úr því er veiddur árlega. Hann skiftir miljónum. Íslenzkur fiskimaður sagði mér, að gufubátur, sem hann vann á fyrir 5—6 árum síðan, hafi á einum degi fengið 11,500 af góðum hvítfiski, en orðið hafi þeir að fleyja svo þúsundum skifti úr þeim parti netanna, sem ekki var vitjað um daginn á undan. Á síðastliðnu sumri hafði þessi sami bátur fiskað um 7,000 á einum degi. Þetta er sýnishorn af fiskmergðinni í Winnipeg-vatni. Einn nágranni minn fékk um $200 í hreinan ágóða eftir tveggja mánaða fiskveiði á næstliðnu sumri.

Hveitiræktin, kvikfjárræktin og fiskveiðarnar eru

alt stórkostlegar atvinnugreina og reglulegir gullnámar, þegar þær heppnast vel, og landið er, frá hafi til hafs, tækifæranna og mögulegleikanna land. Mögulegleikanna til að neyta krafta sinna, og tækifæranna til að skifta um atvinnuvegi þegar einhverjir þeirra bregðast.

Á næstliðnu vori átti eg tal við unglingspilt, sem var að byrja að vinna fyrir eigin reikning. Hann hafði alist upp hjá griparæktar-bónda, og spurði eg hann að, hvern atvinnuveg hann áliti bezt fyrir ungan mann að reyna. Hann svaraði mér því, að atvinnuvegirnir eða gróðavegirnir í þessu landi væri svo margir, að það mætti helzt segja, að þeir væri of margir. Þessi piltur hefir nú keypt land norður af Glenboro og ætlar að stunda bæði hveiti- og griparækt, og sé þetta land gott, má treysta því, að honum farnist vel.

Eg hef áður í þessari grein tekið það fram, að sjóndeildarhringur minn væri býsna þröngur, hvað þekkinguna á þessu landi snerti; en af því leiðir, að eg á mjög bágt með að líta á hag eða framtíðarhorfur okkar Íslendinganna í þessu landi frá almennu sjónarmiði. Og til þess að styðjast ekki eingöngu við mitt eigið hugboð í þessu efni, hef eg lesið fyrirlestra um það eftir þá Einar Hjörleifsson og Jón Ólafsson. Fyrir margra hluta sakir má telja þessa tvo menn með allra fremstu Íslendingum til að skrifa um þetta og þeir hafa líka gert það rækilega, hver í sínu lagi. En svo langt sem séð verður af hinum prentaða hluta fyrirlesturs J. Ó. í Sunnanfara, þá lítur hvor þessara manna talsvert ólíkum augum á málið. Það er svo mikil birta yfir því, sem E. H. skrifar og það leggur svo mikinn yl inn í sálina þegar maður les það, að maður gleymir því næstum alveg, að það eru til skuggahliðar á vesturflutningunum frá Íslandi, t. d. ástvinamissir, sjúkdómar og sorgir, sem nokkrir af einstaklingunum hljóta að taka með í reikninginn, þegar það er rakið út í yztu æsar spursmálið: „hvernig hafa vesturferðirnar hepnast?“ En þegar þessi spurning er tekin frá almennu sjónarsviði, eins og E. H. gerir, ja—hver getur þá annað en verið höfundin-

samdóma um, að þær hafi hepnast vel, meira að segja ótrúlega vel.

Fyrirlestur J. Ó. sýnir þar á móti meira af skuggahliðinni á Ameríkulífi okkar Íslendinga. Vissulega segir J. Ó. satt og rétt frá ýmsu í fyrirlestri sínum, að minsta kosti frá hans eigin sjónarmiði. En svo er það aftur stór galli á gjöf Njarðar, að höf. virðist segja rangt frá ekki svo fáum atriðum, og það á móti betri vitund. Hann virðist gera sér far um að sýna alt svo skuggalegt hér vestan hafs, að það verði ekki fýsilegt fyrir Íslendinga að flytja hingað, það sé svo sem ekkert orðið eftir af nýtilegu landi og upp úr bæjarvinnu sé ekkert að hafa. Á kirkjufélag Vestur-Islendinga reynir hann að kasta dimmum skugga fyrir það, að hafa séra Jónas A. Sigurðsson í þjónustu sinni. Séra J. A. Sigurðsson hefir nú ferðast til Íslands og kynt sig allmörgum þar heima, sem hljóta að geta myndað sér sjálfstæða skoðun um það, hvort J. Ó. sé að skýra hlutdrægnislaust frá starfsemi kirkjufélagsins. J. Ó. hefir skrifað fyrirlestur sinn til þess að gefa Íslendingum á Íslandi glögga hugmynd um það, hvernig löndum þeirra líði hér vestra. En hvað kom það því máli við, þó 50—60,000 verkamanna yrðu ósjálfbjarga í Chicago veturinn 1893—4, ef enginn þeirra var Íslendingur? Í Chicago munu vera sárfáir eða engir íslenzkir daglaunamenn. Þessar fréttir standa ekki í hinu minsta sambandi við líðan okkar Íslendinga í Manitoba, ekkert fremur en þó við hefðum átt heima úti á Íslandi.

En þetta er orðið of langt mál, og því skal eg að eins ítreka það hér, sem eg hef fyrir nálega 11 árum síðan látið í ljósi í grein, er eg sendi Lögbergi, um þetta efni, eftir að eg hafði dvalið 3—4 mánuði hér í landinu: Hver einn einasti maður heima á Íslandi, sem er heill heilsu, en treystir sér ekki til að lifa þar neyðarlausu lífi, ætti að reyna að komast hingað, heldur í dag en á morgun. Það er ekki hægt að byggja gleðilegar vonir á sveitarsjóðunum á Íslandi, og er þess vegna bezt að byggja þær engar.

Eg heyri sagt, að ýmsir leiðandi menn á Islandi

haldi því fram, að þeir einir hæli þessu landi, sem til þess séu launaðir af stjórnum ríkjanna hér í Vesturheimi. Þetta er gömul setning, en hún er engu sannari fyrir það, enda getur hver einasti maður, sem les íslenzku blöðin, sem gefin eru út hér vestra, séð, að þetta eru hrein og bein ósannindi. Eg vil benda á að eins eitt atriði þessu til skýringar.

Um nokkur undanfarin ár hafa Íslendingar haldið hinn svokallaða „Íslendingadag" hátíðlegan á mörgum stöðum hér í landinu. Við þau tækifæri hafa ýmsir daglaunamenn, og bændur flutt kvæði og haldið tölur. Á þann hátt hefir það komið mjög alment í ljós, að Íslendingar eru farnir að elska þessa nýju fósturjörð sína eins heitt og æskustöðvarnar á gamla landinu. Það þarf ekki annað en að sjá fólkið, sem tekur þátt í þessum hátíðarhöldum, til þess að sannfærast um það, að Ameríka hefir ekki farið illa með Íslendinga, heldur uppfylt jafnvel þeirra fegurstu vonir.

Á þessum samkomum og ýmsum öðrum samkomum, sem hafa verið haldnar í bygðarlögum Íslendinga, víðsvegar í þessu mikla landi, hafa verið hugsaðar þær hugsanir, haldnar þær ræður og sungin þau ljóð, sem engin stjórn eða stjórnar-umboðsmenn hefðu getað látið fólkið framleiða. Það eru hugsanir, sem að eins geta orðið til fyrir áhrif hinnar ylríku freisis-sólar, sem ljómar hér í Vesturheimi ríkum og fátækum, voldugum og vesælum, í allri sinni dýrð.

GESTUR JÓHANNSSON,
frá Skeggjastöðum í Húnavatnssýslu.

---

ARNES P. O., NÝA ÍSLANDI, 30. jan. 1899.

VINUR.—Þú hefir beðið mig að láta álit mitt í ljósi viðvíkjandi líðan manna hér og á gamla landinu. Það hefir verið ritað og rætt um það efni. Sumt af því hefir verið satt. En sumt, því miður, rangfært, misskilið o. s. frv.

Eg ætla að láta tilleiðast að láta álit mitt í ljósi, ef vera kynni að þeir, sem þekkja mig, mundu ætla að

eg færi ekki með neitt skrum, heldur segði rétt og sanngjarnlega frá, eftir beztu vitund.

Flestir álíta, að reynslan sé ólygnust og mun það satt vera. Reynsla mín, viðvíkjandi lífinu hér og heima á gamla landinu, er þá í stuttu máli þetta:

Eg kyntist mönnum heima, fullhraustum mönnum, sem áttu örðugt uppdráttar, en sem menn vonuðu að myndu rétta við; en það var síður en svo að þeir réttu við. Þeir sukku dýpra og dýpra í skuldasúpuna og það lá ekki annað fyrir þeim en að fara á hreppinn. Þessir sömu menn fóru til Ameríku, með tilstyrk annara í sumum tilfellum. Þeir komu hingað allslausir. Eg hef kynst þessum sömu mönnum hér, og þrátt fyrir örðugleikana, sem því fylgja að flytja inn í frumskógana í Ameríku peningalausir, mállausir og fákunnandi, þá eru þessir menn, þrátt fyrir aukinn barnahóp, orðnir sjálfbjarga á fáum árum. Þeim líður heldur vel; þá langar ekki heim til gamla landsins; þeir fá borgaða vinnu sína hér.

Fyrir sjálfan mig get eg sagt það, að mér leið heldur vel heima, en mér hefir liðið betur hér. Mig langar ekki heim til gamla landsins.

Mér virðist sjóndeildarhringurinn, og annars flest annað, svo miklu rýmra hér en heima. Hér bjargast nálega allir og læra að hugsa fyrir sig sjálfir. Við borgum ekki aðra skatta hér en þá, sem við góðfúslega leggjum á okkur sjálfir til þess, að uppfræða börnin okkar. Sú upphæð er um 8—10 dollars á ári.

Við sjáum ekki í svona lítið þegar það er til þess að menta börnin okkar. Nei, langt frá. Sérstaklega þegar við virðum fyrir okkur framtíðina í þessu landi. Hér er sama tækifærið fyrir alla til þess að njóta lífsins í ýmsum myndum. Sjálfbjarga maðurinn hefir sama tækifærið til þess að undirbúa barnið sitt fyrir lífið eins og ríkismaðurinn, því skólahús eru hér reist á hverju þriggja mílna svæði, svo framarlega að 10 börn á skólaaldri séu á þessu svæði. Skólaaldur er 6—21. Á þessa skóla geta menn sent börnin og þurfa ekki öðru til að kosta en þessum fáu dollurum og nokkrum ódýrum bókum.

Skólaforirkomulag hér er gott, og er því gott tækifæri fyrir menn að undirbúa börnin undir kapphlaup lífsins í hvaða mynd sem er. En hér eru myndir lífsins eða vegir fleiri en á gamla landinu. Það eru fljóttaldir vegirnir á gamla landinu. Að verða embættismaður. En þess njóta nú fáir af öllum fjöldanum og mjög oft ríkismanna eða embættismanna synir að eins. Að verða bóndi er annað, en sá annmarki fylgir því, að menn verða að eiga á hættu að flosna upp og fara á hreppinn þegar minst vonum varir.

Það þriðja er að verða þurrabúðarmaður. En þurt er það, eins og þú veizt, kunningi. Fjórða er að vera vinnuhjú alla æfi og geta aldrei um frjálst höfuð strokið. Það hefði víst gert okkur báða gráhærða fyrir tímann.

Þeir atvinnuvegir á Íslandi, sem ekki eru hér taldir, eru víst ekki mikið glæsilegri en þeir, sem taldir hafa verið.

En hér í Ameríku eru ótal vegir, og allir hafa sama tækifærið að reyna þá. Hér geta menn orðið til dæmis lögfræðingar, prestar, læknar, leikarar, verzlunarmenn, bændur, og það góðir bændur, sem ekki þurfa að fara á sveitina. Vélastjórar og annars iðnaðarmenn af ýmsum tegundum, sem of langt yrði hér að telja. Sumir Íslendingar hér eru jafnvel orðnir listamenn af ýmsu tagi og hafa atvinnu sína af því. Það eru hundrað vegir hér fyrir einn á gamla landinu.

Atvinnuvegirnir eru að sama skapi betri í þessu landi. Þeir eru lífvænlegri. Gamla landið er svo fátækt, eins og þú veizt, og illa sett á hnettinum, en Ameríka er meginland, opið fyrir heimsmenningunni, þakið jurtagróða af öllum tegundum og svo auðugt af málmum að undrum sætir.

Það er ómögulegt að lífið á Íslandi þoli samanburð við lífið hér, vinur. Óblíða náttúrunnar, fátækt landsins og skammsýni mannanna hjálpast alt að til að gera Ísland nálega óbyggilegt. Hjálpast að til þess að gera Ísland raunalega líkt horkind, sem hefir flagnað og er ekki búin að ná sér aftur.

En afstaða Ameríku, örlæti náttúrunnar og áhrif

heimsmenningarinnar hjálpast að því að skipa henni sæti á meðal hinna beztu landa heimsins.

Þinn einlægur,

ÞORVALDUR ÞORVALDSSON,
frá Hofdölum í Skagafirði.

---

SANDY BAY, MAN., 4. apríl, 1899.

W. H. Paulson, Esq.

GÓÐI VINUR.—Nú ætla eg að efna loforð mitt og senda þér fáeinar línur.

Mitt álit er það, að mikið sé enn, víðsvegar um Canada, af ónumdum bújörðum, en þó álít eg þær beztar í Manitoba-fylkinu.

Það er mikíð betra um atvinnu nú en var fyrir 12 árum síðan, þegar eg kom til þessa lands, því auðlegðin vex og verkgefendum fjölgar.

Að mínu áliti líður Islendingum mikið betur hér en eg hugsa að þeim hefði getað liðið heima.

Það er mín sannfæring, að öll vinna hér sé mikið léttari en hún er heima, og er það af því, að jörðin hér er mikið betur löguð fyrir öll verkfæri.

Griparækt borgar sig mikið vel hér, og eru hér markaðir góðir fyrir þá.

Tíðarfar er hér gott, og tel eg það engan ókost þó kalt sé hér á vetrum, því fyrir það er hægt að selja fisk og kjöt fyrir hátt verð allan veturinn.

Eg álít, að ungt og efnilegt fólk skifti um til betra með að flytja til þessa lands.

Eg álít, að þetta land eigi mikla og góða framtíð fyrir hendi, og er ánægður að vera kominn hingað, og vildi eg ekki vera kominn heim aftur.

SIGURJÓN JÓNSSON,
frá Hafnarfirði.

---

HNAUSA P. O., 16. janúar, 1899.

Herra W. H. Paulson.

Þér mælist til þess, að eg gefi yður álit mitt um þessa nýlendu, svo nefnt Nýja Ísland.

það er enginn efi á því, frá mínu sjónarmiði, að þessi bygð á mjög góða framtíð fyrir hendi. Eg veit vel, að menn telja hér ýmsa ókosti, svo sem flugur, bleytur og of mikinn skóg. það er nú sýnt og sannað, að þessu er hægt að ráða bót á að eins með því að ryðja skóginn. Eftir því sem meira er gert af því, minka flugurnar og landið þornar og ummyndast í hvort sem maður vill, akuryrkjuland eða heyland. Hér við vatnið þarf maður ekki að óttast haustfrostin. Sýnt og sannað er það, að það sem sáð hefir verið hér, í hreinsaða jörð, þrífst ágætlega. Winnipeg-vatn er réttkölluð gullnáma. Að þurfa ekki annað, á hvaða tíma árs sem er, en að kasta út net stúf, og vera ætíð viss um að fá fisk, það er ómetanlegt.

„Hingað flutti eg þegar eg kom frá gamla landinu og var þá hér í þrjú ár. Svo fór eg til Selkirk, þar sem eg dvaldi nokkur ár. þaðan fór eg til Winnipeg og bjó þar í tvö ár, Eg ferðaðist allvíða, og leizt hvergi betur á mig en hér, svo eg flutti hingað aftur til Nýa Íslands. Hér er eg ánægður, því hvergi hefir mér liðið betur á lífsleiðinni.

Eg veit ekki annað en að almenningi manna hér líði vel. það er undravert, hvernig bláfátækir menn, sem hingað koma hafa sig áfram. þeir lifa þó ekki á því opinbera, því „fátækra-útsvör," það orð þekkist hér ekki.

Yðar einlægur,

Björn Skaftason,
frá Hnausum í Húnavatnssýslu.

---

Winnipeg, 18. okt. 1899.

W. H. Paulson, Wlnnipeg.

Herra.—Á leiðinni heiman frá Íslandi í fyrra sumar, sagði eg yður það afdráttarlaust, að eg skyldi, eftir ársdvöl hér í landinu, gefa yður, svart á hvítu, álit mitt á því, hvernig væri hér að vera, hvort sem mér líkaði betur eða ver. Eg hef nú verið hér rúmlega árið, og hef reynt, hvernig hér er um atvinnu á öllum tímum þess. Eg skal þá taka það fram, að atvinna er hér yfirfljótanleg. Duglegur maður, sem

vill vinna, getur altaf haft hér atvinnu. Maður getur á þremur beztu mánuðum ársins haft upp meira kaup, en á 12 mánuðum á Íslandi. Þetta væri lítils virði ef maður þyrfti að vera yðjulaus ómagi hálft árið, eins og margir heima héldu fram að væri. En það er öðru nær. Til dæmis skal eg taka fram, að eg er nú ráðinn hjá góðum, íslenzkum bónda, yfir vetrarmánuðina, byrjandi frá miðjum nóvember, fyrir $15 (kr. 57.45) um mánuðinn og alt frítt. Bæjarvinna hér fellur mér ekki vel. Hún er erfið og óþokkaleg. Kosturinn við hana er, að hún er vel borguð og vinnutíminn stuttur. Vinnan á landinu fellur mér aftur ágætlega. Hin ágætu verkfæri gera hana mikið léttari en þeir geta ímyndað sér, sem ekki þekkja til.

Samanburður á því að komast áfram hér og á Íslandi er alveg ómögulegur, en þó sízt af öllu fyrir bændur, svo mikið hef eg séð síðan eg kom hingað. Hér eru menn líka ánægðir alment, hressir í huga og vongóðir um framtíðina.

Ef eg hefði vitað hvernig hér er að vera, hefði eg komið hingað mikið fyr. Eins er eg viss um, að allur fjöldinn af íslenzkri alþýðu heima klyfi þrítugan hamarinn til að komast hingað, ef hún vissi um tækifærin, sem hér eru til að bjarga sér, en léti ekki telja úr sér kjarkinn af mönnum, sem, vegna persónulegra hagsmuna, reyna að halda fólkinu heima, en skeyta því minna hvernig því líður.

Þetta bréf megið þér gera opinbert ef yður sýnist. Það er í fullu samræmi við sannfæringu mína og þau bréf, sem eg hef skrifað kunningjum mínum á Íslandi síðan eg kom hingað.

Sigurður Sigurðsson,
frá Álftanestanga í Mýrasýslu.

# Skýrslur landskoðunar-manna.

Á fundi, sem haldinn var á Mountain, Pembina Co., North-Dakota., hinn 8. apríl þ. á., var svohljóðandi fundar-samþykt gerð og undirskrifuð af 70 manns:—

„Að kjósa sex manna nefnd til að skoða ýms landspláss í Canada í þeim tilgangi að útvelja stað eða staði handa löndum í Dakota, sem af einni eða annari ástæðu óska að ná sér í gefins bújarðir í hinni víðlendu og frjóvgu Canada.

Í öðru lagi var samþykt:—

„Að fara þess á leit við sambandsstjórn Canada, að hún veiti þessari nefnd eins mikil hlunnindi og hún frekast gæti til að ferðast um landið".

Í þessa nefnd vorum vér undirskrifaðir kosnir.

Vér skrifuðum þegar innflutninga-deild stjórnarinnar í Winnipeg, sem undir eins mjög frjálslega lofaði ókeypis ferð með járnbrautum og einhverjum styrk til útkeyrslu frá ýmsum stöðum á brautunum.

Svo lögðum vér á stað frá Hensel, Pembina Co., N.-Dak., sunnudaginn 21. maí að morgni og komum til Winnipeg lítið eftir hádegi sama dag.

Á mánudagsmorguninn fórum vér upp á skrifstofu innflutninga-deildarinnar til að fá hin nauðsynlegu skjöl og skilríki til ferðarinnar.

Formaður deildarinnar, Mr. William F. McCreary, tók oss mæta vel og veitti í fylsta máta alt, sem lofað hafði verið, mjög lipurlega: Ókeypis járnbrautar-far, nálega ótakmarkaða keyrslu út frá járnbrautarstöðvum og þess utan með oss hlýleg meðmælingar-bréf til umboðsmanna sinna á Edmonton-brautinni, og lagði svo fyrir, að vér fengjum tjöld og eldunar-áhöld og nauðsynlegan útbúnað annan eftir þörfum til útivistar á ferðum vorum útfrá brautinni; og sagði oss þess utan að telegrafera sér til Winnipeg, ef oss vanhagaði um eitthvað á leiðinni, eða ef vér þyrftum að breyta til í einhverju.

Á mánudaginn 22. maí lögðum vér á stað frá Winnipeg til Selkirk og komum aftur til Winnipeg hinn 25., á fimtudag.— Við keyrðum 2 daga út frá Selkirk, í vestur og norður, og skoðuðum St. Andrew's-flóann. Hann mun vera, að sögn, nálægt 200 þúsund ekrur að stærð, eða nálægt 30 sectionir. Flóinn er eign Manitoba-stjórnarinnar, og fæst þar því ekki heimilisréttar-land. En kaupa má lönd í flóanum með litlu verði og haganlegum borgunarkjörum.

Mest af flóa þessum mun vera fyrirtaks land, hvað jarðveg snertir, og annars ágætt til hvers sem vera skal, þegar búið er að þurka hann upp, eins og á að gera og byrjað er á. Það mun lítill vafi á því, að land þar verður áður langt líður verðmætt í meira lagi, enda liggur flóinn nálægt hjartarótum Manitoba-fylkis og Canada í heild sinni.

Föstudaginn 26. maí hófum vér ferð vora frá Winnipeg vestur eftir með Canada Kyrrahafs-brautinni og komum til Calgary aðfaranótt sunnudags kl. 3, eftir þriggja dægra samfelda ferð. Vegalengdin er 840 mílur.

Mánudaginn 29. maí lögðum vér á stað frá Calgary áleiðis

til Edmonton. Sú leið er 192 mílur, aðallega til norðurs, lítið eitt til austurs.

Norður frá Calgary er landið í fyrstu fremur sendið, hólótt og hryggjótt. Vér hirtum því ekki um að skoða landið fyr, en en vér komum til Innisfail, um 77 mílur norður frá Calgary.

Landið norður frá Innisfail alla leið til Edmonton, 115 mílur eftir brautinni, skoðuðum vér meira og minna rækilega, 20—30 mílur vestur og undir 20 mílur austur frá brautinni.

Frá Edmonton fórum vér framt að 40 mílum norður og austur, og þaðan fórum vér suður yfir Saskatchewan-ána og skoðuðum landið þar suður um.

Á öllum þessum fláka, sem vér skoðuðum, og sem allur liggur í Alberta-héraði, er jarðvegur yfirleitt góður. Gróðurmoldin er djúp, en allvíða dálítið sandkend, sem mun vera mjög heppilegt vegna loftslagsins. Landið er vafalaust mjög vel lagað til kvikfjárræktar, því allvíðast er gnægð heyskapar, en vetrartíð fremur mild og vatn nóg.

Án efa er land í Alberta líka vel lagað til akuryrkju, enda er hún stunduð til muna á sumum stöðum, með góðum árangri, einkanlega kringum Edmonton og þar suður með brautinni. 30—50 bushel af hveiti og 60 til yfir 100 bush. af höfrum af ekrunni töldu menn fremur almenna uppskeru þar vestra.

Vér erum sannfærðir um, að þessi landfláki, sem vér skoðuðum, verður áður langt líður fjölbygt og farsælt hérað, því þar eru öll skilyrði til þess fyrir hendi.

Fyrir fáum árum fluttu nokkrir fátækir Íslendingar til Alberta og settust að frá 10—20 mílur vestur frá Innisfail og Red Deer. Nú er þar komin dálítil íslenzk nýlenda, ljómandi þrifleg og myndarleg. Vér heimsóttum landa vora í þessari ungu bygð, dvöldum dálítið hjá þeim og ferðuðumst á meðal þeirra og undum oss ljómandi vel. Þeir eru fram úr skarandi gestrisnir, vingjarnlegir og viðfeldnir, og bendir alt hjá þeim á, að þeim líði ljómandi vel, enda eru þeir mjög svo ánægðir.

Nálega hringinn í kringum þessa íslenzku bygð, þó einkanlega norður og vestur af henni, er gnægð af ónumdu, ljómandi góðu landi, bjóðandi fram viðurværi handa þúsundum manna. Þar er nóg af engi og bithaga, skógi og vatni. Þar eru kol í jörðu og bygginva-gjót í ár- og lækja-bökkum.

Það var ekki laust við, að oss nefndarmönnum kæmi til hugar að óska, að fátækir atorkusamir bændur, sem lemjast um á óræktar-börðum heima á gamla landinu og verða að strita—en þó stríða við ömurlegan skort, væri komnir á þetta frjósama, ónumda land, þar sem hver atorkumaður á að sjálfsögðu góða framtíð fyrir höndum, í góðu og heilnæmu plássi, innan um duglega og upplýsta borgara, undir hagsýnni, réttlátri og duglegri stjórn; stjórn, sem gerir sér ant um velgengni og framfarir borgaranna og koma í þá krafti og kjarna, en gerir ekki að marki sínu og miði að sjúga úr þeim merginn.

Í þessum héruðum, sem vér ferðuðumst um, er hvervetna gnægð af skógi, þó ekki sé það á hverjum sectionar-fjórðungi, þá er hann samt alstaðar í nánd og eftir því góður; langmest poplar og sumstaðar fura

Fiskur er í öllum stærri vötnum t. d. Gull Lake og Snake Lake, og í sumum ánum er nokkur fiskur. Enn fremur má nefna, sem hagræði fyrir innflytjendur, að sögunarmylnur eru hingað og þangað meðfram ánum og jafnvel við vötnin, t. d. Gull Lake.

Áður en vér skiljumst við þetta hérað, viljum vér minnast lítið eitt á smjörgerðarhúsin, sem stjórnin heldur uppi í nýlendum sínum í Canada, til ómetanlegra hagsmuna fyrir fátæka nýbyggjara, og annars alla. Stjórnin s tur upp þessi smjörgerðarhús í öllum nýlendum, þegar beiðst er eftir því, og lætur þau vinna svo lengi sem þörf gerist. Bændur, sem eiga skilvindur, flytja að eins rjómann í húsin; en h nir, sem ekki eiga skilvindur, flytja mjólkina, sem svo er aðskilin í húsinu, en eigandinn fer heim með undanrenninguna. Stjórnin borgar svo bændum rjómann eða réttara sagt smjörið úr rjómanum mánaðarlega í peningum, sem mun láta nærri 17 centum fyrir pundið til jafnaðar.

Svo er talið til, að bóndinn hafi sjálfsagt $20 eftir hverja meðalkú um árið fyrir rjóma, og svo þar að auki kálfinn og alla undanrenningu. En stjórnin gerir stundum enn þá meira fyrir sína ungu bændur en þetta. Þegar of fáar kýr eru í einhverju plássi til þess að geta haldið uppi smjörgerð, þá reisir hún sjálf skilvindu-hús, svo bændur geta flutt þangað mjólkina og látið skilja hana þar, en stjórnin annast flutning á rjómanum til næsta smjörgerðar-húss. Og þetta kostar þessa bændur ekkert meira en venja er til á smjörgerðar-húsum.

Hún gerir þetta að eins til þess að létta undir með bændum í þessu tilliti og. l[illegible] þá, sem svona stendur á fyrir, við að flytja mjólkina ó[illegible]milega langt.

Einn maður úr nefndinni, Mr. C. Johnson frá Hensel, tók sér heimilisréttarland 6 mílur vestur frá Lacombe, við Gull Lake, í Section 36, Township 40, Range 28. Þar er sögunarmylna rétt hjá og nógur fiskur.

Annar maður úr nefndinni, Mr. Jóhann Sveinsson frá Mountain, tók 3 heimilisréttarlönd í Sec. 36, Twp 37, Range 1. Þar mun vera gott akuryrkjuland m. m. og Swan Lake er þar rétt hjá.

Verðuglega viljum vér taka það fram, að umboðsmenn stjórnarinnar sýndu oss í hverju sem var góðvild og hjálpfýsi, og fylgdarmenn vorir voru ferðamenn röskvir og drengir góðir, ekki sízt Joseph Smith frá Red Deer.

Laugardaginn 10. júní komum vér aftur til Winnipeg og ætluðum mánudaginn næsta á eftir að fara norður til Swan River og skoða þann dal, Gilbert Plains, Dauphin-héraðið og jafnvel land við Winnipegosis-vatn. En af því óvanalegar rigningar höfðu gengið þar norður frá, voru járnbrautarbrýr nokkrar komnar svo í ólag, að vér gátum ekki komist þangað fyr en eftir nokkra tíð, svo vér réðum af að fara heim í þetta sinn, en höfum fastlega í huga, að ferðast þangað á þessu sumri, til að litast þar um.

H. Hermann (skrifari), Sig. Gudmundsson.
C. Johnson, S Sveinsson,
Jóhann Sveinsson, Kr. Samúelsson.

---

Winnipeg, 15. september 1899.

William F. McCreary, Immigration Commissioner,
Winnipeg, Man.

Herra.—Í okkar hóp voru A. T. McFee, frá Kent; Thomas Howie, frá Prescott; og John Church. frá Morville í ríkinu

Iowa. Ennfremur H. W. Miles, frá Melvern í ríkinu Kansas, og W. G. og W. M, Finley og W. F. Birdsong, frá Tescumbia í ríkinu Missouri. Staðirnir, sem hér eru nefndir, eru okkar heimili, sem bréf til okkar má senda til.

Aðal-augnamið okkar var að skoða landið umhverfis Yorkton. Við dvöldum ekkert á leiðinni; en hinir sífeldu kornakrar meðfram veginum, sem vitnuðu um velliðan bændanna, freistuðu okkar til nánari eftirtektar. Þegar við komum til Yorkton var þar fult fyrir af innflytjendum, ferðafólki og veiðimönnum. Við skoðuðum smjörgerðarhúsið, sem hefir hina mestu þýðingu fyrir hin afarmiklu kúabú á því svæði. Margir bændur þar hafa eignast enskar hand-skilvindur, sem seldar eru með dönsku einkaleyfi, sem kostar um og yfir $60.00. En nokkrir þeirra brúka gasolín vélar, sem ekki kosta mjög mikið. Rjóminn frá hverjum bónda er vandlega kannaður og smjörgildi hans skrifað í bók. Svo er smjörið búið til á hverjum morgni með sérlega vönduðum áhöldum og sent til markaðar af stjórninni, aðallega til British Columbia. Eftir að kostnaðurinn við tilbúning og sölu smjörsins er svo dreginn frá, er hinum hreina ágóða skift milli þeirra, er rjómann lögðu til. Smjörið frá þessari verksmiðju, með þessu afbragðs fyrirkomulagi, sem tekur mikið fram öllu af því tagi, sem við þekkjum til, í okkar ríkjum, var, árið sem leið 50.000 pund, og hið allra bezta, svo að sala fyrir það var ætíð fljót og viss. Þetta hefir mjög mikla þýðingu í þá átt að hvetja menn til að stunda kúabú. Ein kona, til dæmis, fékk þannig á einu sumri $100.00 fyrir rjómann sinn,

Það fyrsta sem við keyrðum út var í Wallace-bygðina, austur af Yorkton. Nokkrar mílur fyrst, líktist jarðvegurinn því sem hann er í kringum Winnipeg, og það sama má segja um hann norður og suður frá bænum. Þegar nærri Wallace kemur er jarðvegur léttari og litið eitt sendinn, eins og uppskeran þar sýndi. Þar í kring er allmikið til af ónumdu landi, sem fá má heimilisrétt á, og einnig suður af brautinni. Járnbrautarlönd má fá þar líka keypt fyrir $3 ekruna. Yorkton Colonization-félagið hefir þar og land, en því er haldið í hærra verði.

Þar, sem við fórum yfir Beaver-hæðirnar, er landið ljómandi fallegt með nokkrum hæða-bungum. Þar er nægilegt timbur til eldiviðar og girðinga, en mest er þó af sléttlendi. Uppi á hæðunum sjálfum er þéttur og sver skógur, nokkur hundruð mílna langur og 40 mílna breiður. Þar er timbur gott til sögunar og kemur það til að verða mikið hagræði fyrir bændur á því svæði. Jarðvegur í hæðunum er víðast hvar upp á það bezta.

Mr. Osborne, sem kom frá Bandaríkjunum í síðastliðnum marzmánuði, hefir á leigu bújörð Mr. Seemans. Hann hefir nú 120 ekrur undir hveiti og 200 ekrur undir höfrum.

Tíðarfar hefir verið með óhentugasta móti og því uppskeran með rírara móti. Hveiti mun láta nærri að vera 18—20 bushel af ekrunni, en af höfrum um 40 bush,

Það er hér um bil sýnishorn af uppskerunni eins og hún er á þessu svæði. Þannig er uppskeran allgóð, þrátt fyrir hina óhentugu tíð, þó hún sé litil á móti því, sem hún var í fyrra. Þá var algengt, umhverfis Yorkton, 40 bushel af hveiti og um 100 af höfrum af ekrunni. Garðávexti höfum við aldrei séð fallegri en meðfram White Sand-ánni.

Fyrir nokkrum árum settust þar að allmargir bláfátækir Þjóðverjar, sem nú eru komnir í ágætis kringumstæður, hafa

stóra akra og fjölda nautgripa. Þar eru líka nokkrir Danir og Orkneyingar, sem hafa sig vel áfram. Margt af fólki þar komið frá Austur-Canada eða frá Bretlandseyjunum. Þó er nokkuð af Bandaríkjamönnum innan um. En með öllu samantöldu er fólkið í Yorkton-héraði að eins sem dropi í hafinu hjá öllum þeim fjölda, sem búast má við að þangað flytji í nálægri framtíð.

Mest stunda bændur griparækt, og fleygir því óðum fram. Á síðustu sex árum hefir gripum fjölgað þar úr fimm þúsundum upp í 25 þúsundir. Svo er sauðfjárrækt þar í miklum uppgangi. Nautgripir hér eru þeir vænstu, sem við höfum nokkurn tíma séð. 5,000 af þeim, að minsta kosti, verða seld burtu úr sveitinni þetta haust Þeir eru næstum allir þriggja ára þegar þeir eru seldir og hafa að eins lifað þar á sléttunum og heyi að vetrinum, en samt vigta þeir 16—17 hundruð pund. Algengt er líka að senda gripahjarðir hingað að sunnan, þar sem léttara er landið, til að fita þær hér. Annars getur ekki heitið, að hér séu neinar stórar gripahjarðir. Bændurnir eiga þetta frá 50—400 gripi. Flestir bændur hér stunda líka hveitirækt að öðrum þræði. Þegar meira er tekið upp af landinu, þá verður örðugra að hafa stórar hjarðir, en þeir, sem þær eiga, færa sig þá lengra norður, þar sem landið er sagt hentugra ef nokkuð er fyrir griparækt. Við sáum í einum hóp 700 nautgripi, sem nýbúið var að reka norðvestan frá Prince Albert, og átti að fara að senda þá til Englands. Heyskapur er víðast góður, og sumir bændur heya meira en þeir þurfa fyrir sjálfa sig, og taka gripi af öðrum fyrir $5.50 um veturinn fyrir hvern grip. Hveitiræktin fer vaxandi, og sá tími fer líklega í hönd, að mest af gripum lifi á strái á vetrum.

Landið verður tekið upp svipað eins og gekk heima í okkar ríki, og kornyrkjan takmarkar með tímanum griparæktina, því bæði loftslag og jarðvegur er hentugt. Stundum hefir þó borið á frosti á hveiti og jarðvegurinn er ekki sá allra þyngsti, en ágætlega gefst þar hveitiræktin, eins og við vorum sjálfir vóttar að, og það í óvanalega óhentugu tíðarfari. Þess vegna er það auðsætt, að furðu mikinn fénað má hafa á litlu svæði. Mjólkurbú og fuglarækt má hafa þar ótakmarkað, og það sést á öllu, að ekki er einu sinni létt að hafa ofan af fyrir sér í Norðvestur-Canada, heldur er auðgefið að komast þar í góð efni, ef maður leggur sig fram. Til að reisa bú þarf $500.00 til $1,000.00.

Þetta er sú niðurstaða, sem við höfum komist að eftir nákvæmt yfirlit og ítarlega eftirspurn, og við hikum okkur ekki við að mæla með þeim parti landsins, til að setjast að í, við menn í okkar ríkjum.

Hvað viðvíkur verði á lífsnauðsynjum, þá er þess að geta, að ágæt gistihús eru víða, sem setja manni $1.00 dag.

*(Undirskrifuð af):* William G. Findlay,
Tuscumbia, Miller Co., Missouri.

William Z. Findlay,
Tuscumbia, Miller Co., Mo.

W. F. Birdsong,
Tuscumbia, Miller Co., Mo.

H. W. Miles,
Melvern, Kansas.

John Church,
Morville, Iowa.

A. T. McFee,
Kent, Iowa.

Thomas Howie,
Prescott, Iowa.

því hefir verið haldið fram af sumum heima á Íslandi, sem tekið hafa að sér það kærleiksstarf að hindra vesturfarir, að byggilegt og arðberandi land í Canada sé nú á þrotum. Íslendingar heima, sem ókunnugir eru, hafa jafnvel sumir leiðst til að trúa þesssu.

Í því sambandi er vert að vísa til álitsbréfanna í þessu kveri og þá um leið á landabréfið, sem hér meðfylgir. Þar gefst mönnum kostur á að bera stærð Canada saman við stærð annara landa heimsins, sem veita forsorgun mörgum miljónum manna. Þar gefst mönnum líka kostur á að átta sig á stöðu Canada á hnettinum, og geta menn þá farið nærri um loftslagið þar, ef afurðirnir, sem þar eru framleiddir, ekki væri nægileg sönnun. Auðvitað er lítið komið í ljós af auðlegð þess mikla lands. Að eins er það sannað, að það er mesta kornyrkjuland heimsins, og því alment nú á tímum kallað: „kornhlaða Norðurálfunnar".

Hinn mikli gullfundur í Klondike er nú kunnur um allan heim, en víðar eru auðugir námar í Canada, og sem dæmi má nefna það, að í síðastliðnum maímán. var gullnámi í British-Col. seldur á 3. milj. doll.

Þá er timbur og kol ekki síður á að minnast og svo hinn afar-mikli veiðiskapur í stórvötnunum. — Hvítfiskveiðin hér í Canada er orðin Íslendingum kunn, því þeir hafa stundað hana á Winnipeg-vatni síðan þeir fyrst komu til Nýa Ísl. fyrir nál. 25 árnm.

Í hinu svonefnda Swan River-héraði eru nú Íslendingar að byrja landnám. Þar eru landkostir góðir, heyskapur hægur og nægur, og lítur út fyrir, að þar sé að byrja ein af þeirra beztu nýlendum. Stórvatnið Winnipegogis liggur þar austur frá, og er þar hin mesta hvítfiskveiði. Við það eru nú seztir að nokkrir Íslendingar og stunda veiðiskap.

Rauði liturinn sýnir Bretland og suðurpart Canada.




Rauðu strykin í þeim uppdrættinum sem sýnir fylkjaskifting Canada með litbreytingum merkja járnbrautir. Hvíti liturinn að sunnan merkir Bandaríkin.




Hvíti liturinn að sunnan merkir Bandaríkin.

Chicago

Kirkjumyndin er sýnishorn af íslenzkum sveitakirkjum í Ameríku. — Myndirnar af húsum tveggja Íslendinga í Argyle-bygð eru sýnishorn af íslenzkum bændabýlum á síðari árum.